# Fimmtiu

# Passiu Sálmar,

qvednir

af

**Hallgrími Péturssyni,**

Sóknar-presti til Saurbæar á Hvalfjardarströnd frá 1651 til 1674.

EDITIO XXI.

Videyar Klaustri, 1825.

Prentadir á Forlag Islands konúnglegu Vísinda Stiptunar,

af Faktóri og Bókþryckjara Schagfjord.



# 1. Sálmur.

Lagid: Minnstú, o madur! á minn deyd.

Upp, upp, mín, sál! og allt mitt géd, upp mitt hjarta og rómur med, hugur og túnga hjálpi til, Herrans pínu eg minnast vil.

2. Sankti Páll skipar skyldu þá: ad skulum vér allir jordu á, kunngjora þá qvol og dapraũ deyd, sem Drottinn fyrir oss auma leid.

3. Ljúfann Jesúm til lausnar mér, lángadi þó ad deya hér; mig skyldi' og lysta' ad minnast þess, mínum Drottni til þacklætes.

4. Innra mig loksins ángrid skér, æ hvad er lítil rækt mér; Jesús er qvalinn í minn stad, offjaldan hef'eg minnst á þad.

5. Sál mín! skodum þá sætu fórn, sem hefir oss vid Gud Drottinn vorn, fordæmda aptur forlíkad, fognudur er ad hugsa'um þad.

6. Hvad stillir betur hjartans bøl, enn heilög Drottins pína'og qvol? hvad heftir framar hneixli'og synd, eñ Herrans Jesú blódug mynd?

7. Hvar fær þú betur, sál mín! sjed, sanna Guds hjartans ástar-géd, sem Fadir gædskunnar féck til þín, framar enn hér í Jesú pín?

8. O Jesú! géf þinn Anda mér, allt svo verdi til dýrdar þér, uppteiknad, súngid, sagt og tjed, sídan þess adrir njóti med.

---

9. Ad lidinni máltíd lofsaunginn, las sinum Födur Jesús minn, sídasta qvöldid, semt þad var, súngu med hans Lærisveinar.

10. Guds Sonur sá, er sadníngs rád, sjálfur átti á himni' og láð', þádi sitt braud med þackargjörd, þegar hann umgéckst hér á jörd.

11. Þurfamadur ert þú, mín sál! þiggur af Drottni sérhvert mál, fædu þína og fóstrid allt, fyrir þad honum þacka skalt.

12. Illum þræl' er þad eilíf smán, ef hann svo þiggur Herrans lán, drambsamlega og dreyssar sig. Drottinn geymi frá slíku mig!

13. Eptir þann saung, en ecki fyr, útgéck Jesús um húsins dyr, ad hans sidvenju er þad sked, til Olíu-fjallsins gánga réd.

14. Lausnarans venju lær og haldt, lofa þinn Gud og dýrka skalt, bænarlaus aldrei byrjud sé, burtför af þínu heimile.

15. Yfirum Kédrons breidann beck, blessadur þá med sveinum géck. Sá lækur nafn af sorta ber; sýnir þad gódann lærdóm mér.

16. Yfir hörmúngar er mín leid, æ medan varir lífsins skeid; undan géck Jesús, eptir eg, á þann ad feta rauna-veg.

17. Horfi eg nú í huga mér, Herra minn Jesú! eptir þér; dásamleg eru dæmin þín, dreg eg þau gjarnan heim til mín.

18. Þú vildir ecki upphlaup hardt, yrdi þeg-
ar þú fángainn vart; út í grasgardinn géckstú
því. gafst þig í manna hendur frí.

19. Af því læri'eg ad elska'ej frekt, egid gagn
mitt, svo fridur og spekt, þess vegna raskist, þér
er kiært, þolinmædi og géd hógvært.

20. Sorgandi géckstú sagda leid, særdi þinn
huga qval og neyd; hlæjandi glæpa hljóp eg
stig, hefir þú qvittad fyrir mig.

21. Vort líf er grasgards-gánga rétt, grof-
in er ollum fyrirsett. Syndugra leid ej leik þér
ad, lendir hún víst í qvala-stad.

22. Ydrunar-tárin ættu vor, oll hér ad væta
lífsins spor, gégnum daudann med gledi' og lyst,
gaungum vér þá í himna-vist.

23. Þá Jesús nú á veginum var, vid Post-
ulana'hann rædd i þar: hendamundi þá hras-
an skjót. Hardlega Pétur þrætti á mót.

24. Freisarinn Jesús fyrirsier, þá fall og
hrasan er búin mér, hann veit og líka lækníng'
þá, sem leysa kann mig sorgum frá.

25. Aldrej — qvad Pétur — ætla eg, á
þér hneixlast á nockurn veg, þó allir frá
þér falli nú; fullkomin var hans lofan sú.

26. Sú von er bædi volt og myrk, ad voga
freklega á holdsins styrk, án Guds nádar er allt
vort traust, óstoduat, veikt og hjálparlaust.

27. Séj mér, Jesú! od gá ad því, glas-
kéri ber eg minn fésjód í, viðvorun þína vyrdi'
eg mest, veikleika holdsins sier þú best.

## 2. Sálmur.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús geck iñ í grasgard þañ Gethsemane var nefndur hañ. Af olíu, þrúgum þad aukrafn bar; olíu-tréd rétta Herrañ var; o'eum hjálpraedis allra fyrst, af hans lífi þar pressodist.

2. J aldingardi fyrst Adam braut, aptur Jesús þad bæta hlaut; aldingards ekin ávext gaf, eymd, synd og daudi kom þar af; í aldingardi ljúft lífsins tréd, lífgunar frjófgun veita réd.

3. Júdas þeckti vel þeña stad. Þar hafdi hann lengi umhugsad: helzt mundi plátz þad hentugast, Herrann mætti þar forrádast, svo færstir heidu'ad segja'af því, sokk hans lægju svo hylming' í.

4. Satan hefir og sama lag, situr hann um mig nótt og dag, hyggjandi' ad gloggt hvar hægast er, í hættu og synd ad koma mér; en þó í þeim stad allra mest, sem á eg Gudi'ad þjóna best.

5 Heims-bornin hafa líst þá lært, lygd og sviksrædi er þeim kiært, fótsporum djofuls fylgjande, falsrádin draga þó í hlé. Frá hans og þeirra hreckja-stig, Herra Jesú! bevara mig!

6. Opt hafdi Jesús í þann stad, ádur gengid; því veit eg þad, hefir sannlega Herrañ miñ, hugsad um pínu' og deuda sinn, fulltíngis bedid sæduriñ þar, svo fengi hañ stadist pínslirnar.

7. Jurtagardur er Herrans hér, helgra Guds barna legstader, þegar þú gengur um þennann reit, þín sé til reidu bænin heit, andláts þíns gæt og einnig þá, upprisu daginn minnstú á,

8. Lærísveinana Lausnarinn kjær, lét suma bíða nockuð fjær, þrjá tók þó með sér hjarta hreinn, hann girntist ecki'að vera einn; sála mín! þar um þenkja skalt, þér til lærdóms það skédi allt.

9. Guðs kristni er gras-garður hreinn, Guðs Sonar ertú lærisveinn; sit þú hvar sem hann segir þér, sonn hlýðni besta offur er, til krossins ef hann þig kallar þar, kom þú glaðvær án moglunar.

10. Freistíng þúng ef þig feckur á, forðastú einn að vera þá, guðhræddra selskap gyrnstú mest, gefa þeir jafnan ráðin best; huggun er manni mönnum að, misskun Guðs hefir svo tilskickað.

11. Hjartanlega varð harm-þrúnginn, Herrann Jesús í þetta sinn, hölðið skalf við það; seikna sár, flutu í vatni augun klár, sagt grátandi: sál min er, svo allt í dauðann hrígg í mér.

12. Hardtnær stein-snari frá þeim fór, féll strax til jarðar Drottinn vor, flatur sitt blessað andlit á; ógnarleg qvöl hann mæddi þá; hjartað bardist í brjósti heitt, bæði var líf og sálin þreytt.

13 Samvitskan mig nú sjálfann slær, sje eg það gjörla, Jesú kjær! min synd, min synd, hún þjáði þig, þetta allt leiðstú fyrir mig, avi! hvað hef'eg aumur þræll, aukið þér mæðu Drottinn sæll!

14. Mér virðist svo sem min misgjörð, sé meiri'að þýngd, en himin og jörð, því Jesús það Föðursins orðið er, sem allt með sínum krapti ber, flatur hlaut þó að falla þar, þá fyrir mig bar hann syndirnar.

15. Hjartans gledi og huggan traust, hér gefst þér, sál mín! efalaust, það gjald fyrir mína misgjörð, er meira verdt enn himin og jörð, hans sorg, skjálfti og hjartans pín, hjá Gudi er eilíf qvittan mín.

16. Fram þegar Jesús fallinn var, fegursta bæn hann gjördi þar: abba, Fadir! ástkjæri minn, af mér tak þennan kaleikinn; þó svo sem helzt þú sjálfur vilt, sagdi Jesús, med gédid stillt.

17. Ur-rædin bestur er audmjúkt géd, ángrad hjarta og bænin med, hvenær sem kémur hörmúng ad, hugsa þú, sál mín! vel um það, ólolinmædi og möglan þver, meiri reffíngar ablar sér.

18 Obljúgur skaltú aldrei neitt, útheimta hvad þú girnist veitt, til holt sins muna hentugt þér, hugsa jafnan: ad Drottinn sier, hvad lífi og sál til lids er nú, lángtum betur en sjálfur þú.

19. Eins líkhaminn og sálin sé, sann-audmjúklig í bæninne, álítur Drottinn innra hitt, ej ad sídur skal holdid þitt, fyrir Gud med blygdun gánga fram, gjördi svo fordum Abraham.

20. Jesú! þín grátleg gras-gards pín, gledur or-þjáda sálu mín, þitt hjartans ángur hjartad mitt, frá hrigd og mædu gjördi qvitt; því skal míns hjartans hjarta-þel, heidra þig, minn Immanúel!

## 3. Sálmur.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Enn vil eg, sál mín! uppá ný, upphaf taka á máli því: uppstód Jesús, þó þreyttur sé, þrisvar sinnum frá bæniñe. Lærisvein-ar-nir sváfu fast, Sankti Pétur því ávítast.

2. Til og frá gëck hann þrisvar þó, þar fëckst ei minsta hvíld né ró; undanfæri því eckert fañ, allstadar Drottins reidi brañ, ægnum hold, ædar, bléd og bein, blossi gudlegrar heiptar skein.

3. Himna-ljósid var honum byrgt, helzt því af nótt var ordid myrkt, ástvina huggun enga fañ; allir svófu um tíma þañ; jordin var honum óhæg eins; engin fëckst bót til þessa meins.

4. Í þessum spegli þad sje eg: þeim sem Drottiñ er reidur mjög, hverki verdur til huggunar, himin, ljós, jord né skëpnurnar, án Guds nádar er alltum kríng eymd, mæda, qvöl og fordæmíng.

5. Framar sjest hér hvad fárleg sé, fordæmdra qvöl í helvíte; frá einni plágu til annarar, í ytstu myrkrum þeir ráfa þar; o! hvad syndin af-skapleg er, allt þetta færir hún med sér.

6. Í þridja máta af þessu sjest, þad lærdú, sál mín! allra best, Guds reidi-eld og eilíft fár, útslöcktu'og lægdu Herrans tár, allt honum því til ama var, svo allt verdi þér til huggunar.

7. Hrigdar-sporin þín, Herra miñ! í himna-ríki mig leida iñ; í nætur myrkrum lá neyd á þér, nádar- og dýrdar-ljós gáfst mér; vinir þér enga veittu stod, svo vinskap feng'eg vid sannann Gud.

8. Þar kom lokfins á þeirri tíð, þreytti Jesús við dauðans stríð. Andlát mitt bæði og banasótt, blessaðist mér þá somu nótt, dauðinn tapaði, Drottinn vann, dýrðlegann sigur gaf mér hann.

9. Agéck svo dauðans ablið ríkt, eckert dæmi má finna slíkt, allur líkhami Lausnarans, laugaðist þá í blóði hans, sá dreyra-sveiti dundi á jörð, Drottins pína því mjög var herð.

10. J Adams broti var blótskuld gjörð, bölvun leiddi það yfir jörð; Jesú blóð hér til jarðar hné, jörðin aptur svo blessuð sé, ávoxtur, gróði, og aldin klár, oss verði að notum sérhvert ár.

11. Sár-kalda dauðans sveita-bað, um síðir þá mér kémur að, sár-heiti dreyra-sveiti þinn, sefi og mýki, Jesú minn! ángistar sveita eilíft bál, aldrei lát snerta mína sál.

12. Mér er svo qvöl þín minnileg, á morgni hverjum þá uppstend eg, fyrst eg stíg niður fæti á jörð, fær'eg þér hjartans þackargjörð, blóðsveitinn þinn eg bið mér sé, blessan og vernd á jörðunne.

13. Hörmúng þá særir huga minn, hef eg mig strax í grasgarð þinn, dropana tín'eg dreyra þíns, Drottinn! í sjóðinn hjarta míns, það gjald alleina gyldir mest, hjá Guði fyrir mín afbrot verst.

14. Upphaf alls mesta ófegnuðs, áklögun straung og reiði Guðs, bætt er, friðstillt og forlíkað; Faðirinn lét sér lynda það, Sonurinn bar hans bræði frí, borgaðist þrællinn út með því.

15. Þess meir, sem þáðan þreyngdi ad, því innilegar Jesús bad, heilagur Engill himnum frá, Herra sinn kom ad styrkja þá. Enn hefir þú hér einn lærdóm, ydka og lær hann, sál mín fróm!

16 Ef hér verdur, (sem opt kann ské) undandráttur á hjálpinne, bid, styn, andvarpa æ því meir, sem aukast vilja harmar þeir, fódurlegt hjarta hefir Gud, vid hvern, sem lídur kross og naud.

17. Sjá þú, ad Engill sendur var, Syni Guds hér til huggunar: þeir gódu Andar oss eru nær, alla tíma þá bidjum vær, helst þá lífs enda lídur ad, Lazarí dæmi sýnir þad.

18. Heidur, lof, dýrd á himni og jord, hjartanleg ástar þackargjord, Drottinn Jesú! þér sætust sé, súngin af allri kristninne, fyrir strídid þig þjádi frekt, þad er vort frelsi æfinlegt.

## 4. Sálmur.

Lagid: Einn Gud Skapari allra sá.

Postula kjóri Kristur þrjá, í qvólinni sér ad vera hjá, baud þeim: vakid og bidjid víst, brádleg freistni svo grandi síst.

2. Strax, sem Jesús um steinsnar nær, sté from lengra — þess gætum vær — allir sofnudu sætt med ró, sjalfur Herrann einn vakti þó.

3. Ad ur var svoddan um þig spád, ásett framkom nú Herrans rád, þú hlautst Guds reidiþrúgu einn, þreyttur ad troda, Jesús hreinn!

4. Ef eg skal ecki sofa'í synd, svo er náttúran veik og blind, um steinsnar máttú eitt mér þá, aldrei, minn Jesú! víkja frá.

5. Nætur-hvíldin mín náttúrlig, nóg er mér trygg þá veit eg þig, hjá mér vak.r til hjálpræðes, hvert gjøld vil eg mér óska þess.

6. Þrisvar Jesús til þeirra fór, þó að hañ mæddi pína stór: hañ bað Pétur með hrigg'ri lund, hjá sér vaka um eina stund.

7. En hañ sófnaði æ því meir, ei heldur vissu sjálfir þeir, hverju svørudu honum þá. Herrans pínu mjøg jók það á.

8. Mig hefir ljúfur Lausnariñ, leidt inn í náðar grasgarð sinn, vakandi svo eg væri hér, vitni skírnin mín um það ber.

9. Ungdóms heimskan — sem venlegt var — vildi mig ofmjøg svæfa þar; foreldra hirtíng hógværlig, hans vegna kom og vakti mig.

10. Alldúrinn þá mér odladest, áfell gjálífis svefninn mest; Kénnimeñ Drottins komu þrátt, kølluðu mig að vakna brátt.

11. Fullvoxinn gleymsku svefninn sár, sókti mig heim og varð mjøg dár, dymman heims elsku dróst að með, dapurt varð mitt til bænar géð.

12. Þá kom Guðs Anda hræríng hrein, í hjarta mitt iñ sá ljóminn skein, en í heimskuñi svo eg svaf, sjaldan mig neitt að slíku gaf.

13. Sárlega var mín síblskon blind, forlát mér, Jesú! þessa synd, hvar með að jók eg hørmúng þér, en hefnd og refsíng sjálfum mér.

14 Láttú þá aldrei leiðast þér, ljúfi Jesú! að benda mér; hugsi til mín þitt hjartað mildt, hirtú mig líka sem þú vilt.

15. Vil eg nú hjartans fegins fá, Frelsari minn! ad vaka þér hiá, andinn til reidu er í stád, ofmjeg holdid forhindrar þad.

16. Jesús unnti med tjúsri lund, Lærisvein-um ad hvíla um stund; því hann vorkynnti þeim og mér; þad eitt mín blessud huggun er.

17. Sídast alltaf þá sá hann þar, svikara lid fyrir hendi var, baud þeim: vakid og bidjid best, burt er nú værdar tídin mest.

18. Svoddan áminníng, sála mín! samlega skyldi ná til þín, svo þig ej skadi svefninn vær, svikarinn er þér ecki fjær.

19. Daudinn forrædur fjørid þó, fyrr'enn vardi því margur dó; hann er í nánd þó sjáist síst, sérhvern dag er hans áhlaup víst.

20. Daudinn þá mætir dapur þér, dóminn hefir hann eptir sér. Andskotinn bídur búinn þar, í bálid vill draga sálirnar.

21. Sjá þú vel til, ad svoddann her, sofandi komi ecki ad þèr, í hreinni ydrun þú hvern dag vak, herskrúda Drottins á þig tak.

22. Bænin má aldrei bresta þig, búin er freist-íng ómislig, þá líf og sál er lúin og þjád, lykill er hún ad Drottins nád.

23. Andvana lík til einkis neytt, er ad sjón, heyrn og máli sneydt; svo er án bænar sálin snaud, sjónlaus, kald, dauf og rétt steindaud.

24. Vaktú, minn Jesú! vaktú í mér, vaka láttú mig eins í þér, sálin vaki þá sofnar líf, sé hún ætíd í þinni hlíf!

5. Sálm:

## 5. Sálmur.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug'og sál'.

Medan Jesús þad mæla var, mañfjöldi kom í gardinn þar, Júdas, (sá Herra siñ forréd), sveinar Presstaña'og strídsfólk med, skridbyttur báru, blys og sverd, búnir mjög út í þessa ferd. Um það eg framar þenkja verd.

2. Verdur þad opt, þá varir minnst, voveifleg hætta búin finnst, ein nótt er ei til enda trygg, ad því á qvoldin, sál mín! hygg, hvad helzt, sem kann ad koma' uppá, kjós Jesúm þér ad vera hjá, skélfing engin þig skadar þá.

3. En Júdas hafdi ádur sagt, audkénni þeim, og svo vid lagt: hvern eg kyssi, handtakid þann, höndlid med gætni' og bindid hann. Varastú, sál mín! svik og prett, þó sýnast megi' í hylming sett, Drottinn augljóst þad dæmir rétt.

4. En Jesús ádur allt fornam, hvad átti vid hañ ad koma fram, þó géck hañ sjálfur þeim á mót, þañig rædi med kjærleiks hót: ad hverjum leitid híngad þér? hópur íllmeñis þañig tjer: Jesúm nadverska nefnum vér.

5. Jeg er hañ! sagdi Jesús þá, Júdas sjálfur stód flocknum hjá; óblugt var Drottins ordid þad, allir til jardar féllu'í stad. Hvad hans óvini hrelldi mest, huggar nú mína sálu best, í allri neyd þad auglýsest.

6. Þá eg fell edur hrasa hér, hyrstur Drottiñ vill reisast mér, þá segir Jesús: eg em hañ

sem endurleysti þañ syndarañ, með mínu blóði og beiskri pín, bræði, Faðir kjær! stilltú þín, eflaust er það aísokun mín.

7. Djöfull, synd og samvitskan ill, sálu mína þá qvelja vill, eins segir Jesús: eg er hañ, sem afmá þína misgjörð vañ, líka sem vindur létt-fær ský, lángt feykir burt og sjást ej því, á mig trú þú svo ertú frí.

8. Þegar mig særir sótt eða qvöl, sorgleg fá-tækt og heimsins böl, jeg veit þú segir: jea er hann, Jesús, sem lækna vill og kann; auðlegð á himnum áttú víst, eymd þín og hriagð í gleði snýst, heiminn sigraði eg, hræðstú síst.

9. Á dauðastund og dómsins tíð, Drottinn! það skal mín huggan blíð, orð þitt er sama: eg er hann, sem inn þig leidi í himna-rann, þjón minn skal vera þar eg er, því hefir þú, Jesús! lofað mér, glaður eg þá í friði fer.

10. Jeg segi á móti: jeg er hann, Jesú! sem þér af hjarta ann; orð þitt lát vera eins við mig, elska eg, seig þú, líka þig. Eilíft það samtal ockar sé, uppbyrjað hér á jörð-unne, Amen! eg bið: svo skuli ské!

## 6. Sálmur.

Lagið: Einn Herra eg best ætti.

Frelsarinn hvergi flýði, fjandmenn þá lau señ, Herrañ beið þeirra'hinn þýði, þeim leyfði'á fætur enn. Hvern helzt þeir hugsi'að finna, hann spyr — sem ljóst og gét — jafnt sem

fyrr — Júdar inna — Jesúm af Nazareth.

2. Eg em hañ, aptur sagdi, añad siñ Jesús hátt. Læriseinnunum lagdi, líknar ord þetta brádt: ef mín ydur lystir leita, þá látid þessa frí. Búiñ var hann ad heita, hjálpræðis ordi því.

3. Hér af má heyra og skilja, Herrans vors Jesú makt, ecki gat án hans vilja, á hann neinn hendur lagt. Bid mig þó hatri hreifi, heiptarmenn íllgjarner, enginn kann, utan hann leyfi, eitt skérda hár á mér.

4. Fodurnum hjarta hlýdinn, hann gafst á þeirra vald, sál mín! því sért ógvídin, sjá! þitt óhlýdnis gjald, viljugur vild' hann bæta, víst er þín skylda' audsjen, ást og audsveipni mæta, áttú ad leggja' igén.

5. Júdas kom skjótt sem kunni, kyssandi Jesúm nú, mælti flárádum muñi: Meistari! sæll vert þú! Herrañ hégværdar ríkur, hann sagdi: þú, miñ vin! med kossi Son Mañsins svíkur! Síst mun því heimdin lin.

6. Sem munn eplid eina, aumlega ginnti' um sinn, fals-koss því féck ad reyna, Frelsari! muñur þinn; blídmælum Djöfuls bægdú, svo bleckist og ecki af þeim, heims hrecki líka lægdú, líf mitt og æru geym!

7. Audsjen eru' augum þínum, oll vjel og launsvik hér, hritt þeim úr huga mínum, hreint skapa géd í mér, vygdstú mig vin þiñ kalla, verda lát

taun Þar á, holds lyst og hræsni alla, hindra og rek mér frá.

8. Ef hættu' og háska mikiñ, hefir mig Satan ledt; o! hvad opt eg verd svikiñ, ej gér eg hjá því sneidt, Son Mañsins svikum mætti, sannlega uppá þad, svikanna háskiñ hætti, hjá mér ej finndi stad.

9. Muñur þiñ — ad eg meina — mynnist vid Jesúm bert, þá hold og blód hans hreina, hér fær þú, sál mín! snert; í Guds nafni ad þér gádu, géf honum ej koss med vjel! í trú og ydrun þig tjádu, tilbú þitt hjarta vel.

10. Þángad þegar ad stundu, þusti íllrædis lid, ljúfasta lamb Guds bundu. Lokid var ollum frid, hardsnúnum reipum reyrdu; rángsletis míns hann galdt; Drottinn í dróma keyrdu, dósnadi holdid allt.

11. Júdar þig, Jesú! strengdu, jeg gaf þar efni til, syndir mínar þér þreyngdu, þess nú eg ydrast vil; glæpa-bønd af mér greidir, og géf mér frelsid þitt, andlegum dosa eydir, sem áfell hjartad mitt.

12. Guds Son var gripiñ hendum, gésiñ svo yrdi'eg frí, hann reyrdist hordum bendum, hlaut eg miskun af því; fjøtur þúng og fángelsi, frekt lá, minn Herra'! á þér, daudans og Djøfuls helsi, duttu því laus af mér.

13. Bid eg: þín bondin hordu, bindi nú hvern minn lid, frá allskyns glæpa-gjørdum, og goldum heimsins sid. Laus og lidugur andi, lífs

meðan dvelst eg hér, þér sé jafnan þjónandi, þessa bón veittu mér!

## 7. Sálmur.

Lagið: Gæðsku Guðs vér prísum.

Lausnarans Lærisveinar, þá litu atburð þann, og Júda'athafnir einar, allir sem spurðu hann: egum vér ecki'að slá, óvina sveit með sverði? svo hér ei þýngra verði. Sál mín! hér gjört að gá.

2. Ef þú áforma vildir, eitthvað, sem vandi er á, þarfleg ráð þyggja skyldir, og þig vel fyrir sjá, af því optlega skér: sá, sem er einn í ráðum, einn mætir skaða bráðum, seint þá að ydrast er.

3. En með því mannleg vitska, í mörgu náir skamt, á allt kann ecki'að gitska, sem er þó vandasamt; kost þann hinn besta kjós: Guðs orð fær sínt og sannað, hvað sé þér leyft eða bannað, það skal þitt leiðar-ljós.

4. Pétur með svellu sinni, sverð úr slíðrum dró — hans trú'ea bræðin brinni — og beint í flockinn sló: Malchus hlaut hér af tjón; hann misti' hið hægra eyra — höggið tók ecki meira — þessi var Biskups þjón.

5. Lausnarinn ljóst nam svara: Lærisveinunum fyrst: látið þessa framfara, frekast að sinni lyst: Pétri svo sagði nú; sverðs dauða sá skal seku, er sverð án leyfis tekur, sverð slíðra, Símon! þú.

6. Meinar þú Faðirinn mildi, mundi ei senda hér, ef eg þess óska vildi, Engla til

fylgdar mér, fleir'eñ tólf fylkíngar? eda mun skyldr eg ecki, ástenktañ kaleik drecki, sem mér þó settur var?

7. Svo mun uppfyllast eiga, hvad er í Ritníng' tjád, og sídan sannast mega, hvad sjest fyri laungu spád — svo eptir Sermon hann — fyra þjónsins áhrærdi, sem ádur Pétur særdi, læknadi ad heilu hann.

8. Sál mín! lærum og sjáum, med sannri hjartans lyst, tvennslags sverds gloggt vid gáum, greina skal þar um fyrst: sverd Drottins Dóm-ariñ ber; sverd egin-hefndar añad, sem ollum verdur bannad, þad kénnir Kristur hér.

9. Bid eg: hér gloggt ad-gætir, gód Vald-stjórn heidurlig! saklausann síst þú grætir, né sjálfa meidir þig, vyrd sverd Guds vandlætis, blód skaltú því ej banna, burtsníd þú grein last-anna; merk dæmi Móisis!

10. Þitt sverd, sem þitt er egid, fyrir þína egin sok, skal ej úr skeidum dregid, skír eru þar til rok, Jesús þad bannar bert, honum er skyldt þú hlýdir, hógvær umberir, lídir, þad móti þér er gért.

11. Ræn ei Gud sínum rétti, því reiknast hefndin hans, Valdstjórn til verndar setti, vída um bygdir lands, ellegar ad því gá: sverd Drottins, sem hér nefnist, sannlega á þér hefnist, tjón þitt tvofaldast þá.

12. Malchus, sem misti eyra, merkir þá alla frí, sem ord Guds ecki heyra, ega þó kost á því,

heyrn er þeim hægri sljó, vinstri hlust þoilltri halda; háð og spéin margfalda, nóg géta numið þó.

13. Skálka-mark mátti kalla, Malchus hér fengi rétt; á Guðs óvini alla, einkénni slíkt er sett, orð hans ej akta hér; jeg bið og jafnan segi: Jesú miñ! látrú eigi, það merki sjást á mér!

14 Enn finnur þú hér framar, Frelsarans dæmið best: hörmúngar hættusamar, á honum láu mest, sitt traust þó setti hann, á Guðs Föðurs gæðsku ríka, gjör þú það, sál mín! líka, ef kross þig henda kann

15. Qvöl sína Jesús kallar: kaleik á-skeinktañ sér. Kross þiñ og eymdir allar, eins máttú nefna hér; því Drottinn drack þér til, fyrir þig þá hann píndist, svo þú, mín sál! ei týndist, gjör honum gjarnan skil

16. Þú mátt þig þar við hugga, hañ þeckir veikleik mañs, um þa stú eckí að ugga, ádryckju skamtinn hans, vel þín vanqvæði sjer; hið súrasta drack hann sjálfur, sætari og minni enn hálfur, skérfur er skenktur þér.

17. Heipt mína og hefndar næmi, hefir þú, Jesú! bætt, mér gafst mañ-gæðsku dæmi, þá Malchus fékkstú grædt; eg þarf og einnig við, eyrað mitt læknað yrði, svo orð þitt heyri og vyrði; þýðlega þess eg bið!

18. Hjálpa mér, Herra sæli! að halda krossbikar minn, svo mig ej undan mæli, né mogli um vilja þinn Eg bið: almætti þitt, vorkyñi minni veiki, ef verða kann eg skeiki, hressstú þá hjartað mitt!

# 8. Sálmur.

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Taladi Jesús t'ma þañ, til við óvini sína, sem komnir vóru' að höndla hañ: heyr- ...n þá kénning' sína!

2. Sem til íllvirkja erud þér, út-gengnir mig að fánga, áður gat enginn meinað mér, í musterinu'að gánga.

3. Daglega hef'eg sýndt og sagt, sann-leiksins kénníng'mæta, enginn gat hendur á mig' lagt. Ætlud nú þess að gæta.

4. Yfirstendur, nú ydar tíð, uppfylld svo Ritníng verdi, myrkrañá geysar maktin stríð. Mæla svo Jesús gérdi.

5. Ljúflyndi blessað Lausnarans, líttú hér, sál mín kjæra! sá vill ej dauða syndugs mañs, svoddan máttú nú læra.

6. Jesús þeim sýndi' í sannri raun, sálar-heill, náð og frelsi, Guds Syni Júdar guldu'í laun, grimd, hatur og fángelsi.

7. Furda því, sál mín! engin er, ej skalt því dæmi týna, þó veröldin launi vondu þér, vel-gjörð mjög litla þína.

8. Syndínga dæmi skynja skalt, skal þig við ódygð slíka, þacklæti fyrir góðgjörð gjaldt, Guði og mönnum líka.

9. Jeg læt mér þessu jöfnframt sagt, Jesú! af orðum þínum, enginn gat hendur á þig lagt, að eginn vilja sínum.

10. Þann takmarkaða tímans púnkt, tilsetti Faðirinn mildi, nær það ánauðar okið þúngt, yfir þig gánga skáldi.

11. Eins upphaf líka og endíng með, allrar hörmúngar minnar, Faðir himneski! er fyrisjeð, í forsjón mískunar þinnar.

12. Þessi nú tíminn yðar er, óvinum Jesús sagði; Herrans eg þetta máltak mér, í minni og hjarta lagði.

13. Nú stendur yfir náðar-tíð, mannsins er þess eg gætti, líður mig Drottins biðlund blíð, brot mín svo qvittast mætti.

14. Ef eg þá tíð, sem Guð mér gaf, gálaus forsóma næði, Drottins tími þá tekur af, tvímælin öll í bræði.

15. Því lengur, sem hans biðlund blíð, beðið forgéfins hefur, þess harðari mun heiptin stríð, hefndar þá Drottinn krefur.

16. Guðs vegna að þér gæt, mín sál! glæpum ej lengur safna, gjörum yðrun; því meira eñ mál, mun vera synd að hafna.

17. Í dag við skulum skipta um skjótt, skal synd á flóttaj rekin; hverr veit nema sé nú í nótt, náðin í burtu tekin?

18. Talar Jesús um myrkra makt, merkið það, Valdstjórnendur! yður skal nú í eyra sagt: umdæmið heims tæpt stendur.

19. Ljósið myrkrin burtleiðir frí, með ljóma birtu sinnar, varastú að skýla skálkum því, í skugga maktar þinnar.

20. Miñstú

20. Minnstú, ad myrkra maktin þver, þá myrkur daudans skalt kanna; í ytstu myrkrum engiñ sjer, adgreiníng' Hofdíngjanna.

21. Myrkri léttari' er maktin þín, miñst þess fyrir þinn dauda, þá Drottins hátignar dýrdin skín, hún dæmir eins ríka' og snauda.

22. Fyrst makt heims er vid myrkur líkt, mín sál! haldt þér í stilli, varastú þig ad reida ríkt, á Ríkismanna hylli.

23. Drottinn Jesú! þú líssins ljós lýstú valdstjórnar-monnum, svo þe'r, sem ráda yfir oss, eblist ad dygdum sonnum.

24. Jesú! þín kalda qvala-stund, qvala-tíd af mér svipti, Guds barna gafst mér glédi-fund, gód vóru þau umskipti.

25. Myrkanna þreyngdi maktin þer, mig svo leystir úr vanda; qvalanna ytstu myrkur mér, mega því aldrej granda.

## 9. Sálmur.

Ladid: Jesú Kristi! þig kalla eg á.

Þá Lærísveinarnir sáu þar, sinn Herra gripiñ höndum, og hañ af fólki verst a var, vægdarlaust reirdur böndum: allir þeir hopum flýdu frá, forlétu Drottiñ hreinañ, í háska einañ. Ad svoddan skulum vid, sál mín! gá, sjáum hér lærdóm beinann.

2. Án Drottins ráda' er adstod manns, í engu miñsta gyldi, fánýtt reyniſt opt fylgid hans, er freklast hjálpa skyldi; hverr eiñ vill forda sjálfsum sér, þá sýnist háski búiñ, ad hendi snúiñ, far því varlega, fallvolt er, frænda og vina trúin.

3. Í sama máta sjer þú hér, sál mín! í speigli einum, að hriggilegar sé háttað þér, enn Herrans Lærisveinum; þeir hofðu leyfi Lausnarans, lífi að forða sínu, frá sárri pínu, naudugir mistu náviſt hans; nú gæt að rádi þínu.

4. Hvad opt, Jesú! þér flúði eg frá, frekt á mót vilja þínum, þá glæpa-veginn géck eg á, girndum fylgjandi mínum? forskuldað hafd'eg fyrir það, flótta-madur að heita, til heljar reita, en þú vyrdtist mér aumum að, aptur í myrkun leita.

5. Einn varstú, Jesú! eptir því, í óvina táum höndum, einn svo eg væri aldrei í eymd og freistingaum vondum, allir forlétu einann þig, allt svo mig hugga kynni, í mannraun minni Eg bid: Drottinn! lát ecki mig, einsamlann nockru sinni.

6. Lærisvein, sál mín! sjádú þann, sem Jesú eptirfylgdi, ranglát úngmenni ræntu hann, rétt nakinn við þau skildi. Bersnegður flótti betri er, enn brædralag órettinda, við selskap synda, áviñing lát þig engann hér, í þeirra flocki binda.

7. Burt þadan Jesúm færdi fljótt, flockur íllrædis-manna. Lamb Guds saklaust, þá leid að nótt, leiddu þeir til qvalaña, miskunarlaus sú medferd brád, mér vyrdist eptir vonum, í nátt-myrkronum, þeir hafa bædi hrakt og hrjáð hrundið og hjakað honum.

8. Í daudans myrkrum eg dæmdur þræll, dragast átti til pínu, en þú tókst, Jesú Son Guds sæll! saklaus við straffi mínu, þannig tilbjóstú lífsins leid, ljómandi sálu minni, þó líf

hér

hér lífi, andláts qvolum og kaldri neyd, qvöldi og því engu finni.

9. Hroktu því svo og hrjádu þig, Herra minn! túsku þjódir, ad hér nú bæri á hendum mig, heilagir Englar gódir; mædusom urdu myrkrin þér, mæta létu þig hordu, og hindrun gjordu, Guds dýrdar-ljós svo lýsi mér, á lifandi manna jordu.

10. Qvala-for, Jesú! þessi þín, sem þú géckst einusinni, veri kraptur og verndin mín, svo veginn lífsins eg finni. Lát ecki Djoful draga mig, í dofinnleik holdsins blinda, til sekta og synda; eg bid af ást og alúd þig: ákésd hans burtu hrinda.

## 10. Sálmur.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Til Hannas húsa Herrañ Krist, hardrádir Júdar leiddu fyrst — beiskt frá eg bond hañ særi — honum strax þadan-vísad var, vidtekt féck ej né hvíldir þar, mjog svo þétt mæddur væri.

2. Burtsendi þvi med beiskri pín, bundiñ Kaiphas mági sín, Hannas vorn Herrann sata, Hofud-keñimañs hærstu stétt, hafdi sá þetta árid rett, Guds logmáls átti ad gæta.

3. Ur himnaríkis hvíldar-stad, hefdum vid, sál mín! verdskuldad, útrekin vist ad vera; en Jesús tók nú uppá sig, ónádan þessa fyrir þig. Lof sé þeim ljúfa Herra!

4. Hjartad bædi og húsid mitt, herbergi veri, Jesú! þitt, hjá mér þygg hvíld hentuga; þótt þú

komir med krossinn þinn, kom þú blessadur til mín inn, fagna'eg þér fegins huga.

5. Kaiphas hafdi hér um spád, hentugast mundi þetta rád: ad dæi einn fyrir alla. Embættis mælti andinn þar, af því hjartad ei vissi par, sannleik Guds sinnti varla.

6. Balaams dæmi eins var eitt, andagift slík var honum veitt, spaklega túngan spádi, hann hafd' í sinni hreckja rád, hjartad féck ecki sannleiks gád, því hann fjegirndin þjádi.

7. O Jesú! lát þinn Anda hér, aldrei víkja í burt frá mér, leid mig veg lífsins orda, svo hjartad bædi'og málid mitt, mikli samhuga nafnid þitt, holds girnd og hræsni forda!

8. Til Kaiphas's vóru komnir sest, Kennivaldid og Stjórnarmenn; Biskupinn þegar ad bragdi; leitar andsvars til Lausnarans, um Lærisveina'og kenníng hans? en Jesús aptur sagdi:

9. Opinberlega', en ecki leynt, í musterinu kénnd'eg beint, hvad spyr þú mig um þetta? kunngjöra mega þar um þér, þeir, sem lærdóminn heyrdu af mér; þa láttú þig leidrétta.

10. Gæt ad, mín sál! og sjádú þar, Sonur Guds undir ransak var, krafdur þad qvöldid eina. A qvöldi hverju þú koma skalt, qvöldreikníng vid þig sjálfa haldt, med qvöld-offurs gjörun hreina.

11. Þú, Guds Kénnimann! þenk um þad: þar muni'um sídir grenslast ad, hvernig og hvad

hér kénndir, ad Lærisveinum mun líka spurt, sem lét þitt gáleysi villast burt; hugsa gløggt hvar vid lendir.

12. Jesús vill ad þín kénníng klár, kroptug sé, hrein og opinskár, lík hvellum lúdurs-hljómi, launsmjadran øll og hræsnin hál, hindrar Guds dýrd en villir sál, strækfast med straungum dómi.

13. Vangætslan mín er margvíslig, mildasti Jesú! beidi' eg þig: væg þú veikleika mínum! forsóman engin fannst hjá þér, fullnadar bót þad tel eg mér. Styrk veittú þjónum þínum!

14. Eins er hér einnig øllum rétt, alvarleg kénníng fyrisett, ord Guds elski og læri: trúin innvortis ebli géd, einardleg játníng líka med, ávøxt hid ytra færi.

15. Biskups þjón einn, í brædi þó, blessadann Jesúm pústur sló — svo þad Ritníngin segir — hógværlegt andsvar Herrann gaf, honum, sál mín! þad lær þú af, um sakleysi þitt ei þegir.

16. Hvart samvitskan Adam sló, íllann kinnroda féck hann þó, í fyrsta falli sínu, þessvegna Jesús høggid hast, hlaut ad lída og rodna fast, allra fyrst í hans pínu.

17. Drottinn Jesú! eg þacka þér, þetta leidst þú til frelsis mér; eg bid ástsemi þína: samvitsku slegin svida skjæd, á sálu minni þú mýk og græd, burt-tak þú blygdun mína!

# II. Sálmur.

Lagid: Dagur í austri allu.

Gudspjalls Historían gétur, gripinn þá Jesús var; allir sessi, utan Pétur, yfirgáfu hann þar, og Lærisveinn einn annar, álengdar gengu hljóðt, Herrans braut hrigdar sanna, hardla dymmt var af nótt.

2. Ka'phas' Kénnimanni, kunnugur Lærisveinn, inngengur ert — med sanni — útí stód Pétur einn. Ambátt upplúka beidir, ókénnd-ann Pétur þá, í forsal til lýdsins leidir. Lærdóm hér finna má.

3. Lífs-ferli' ad fylgja þínum, fýsir mig, Jesú kjær! voikunnú veikleik' mínum, þó verdi'eg álengdar fjær; þá trú og þol vill þrotna, þrengir ad neydin vond, reis þú vid reyrinn brotna, og rétt' mér þína hond.

4. Kol'-eld, því kaldt var nærsta, qveikt hafdi þræla lid; Pétur — med sturlun stærsta — stód hjá þeim loganum vid. Ambátt hann einn sprogsetti, af sér þad heyra lét: mun þessi mann — hún frétti — med Jesú' af Nazareth?

5. Hann neitar — hradt ad bragdi, hræddur vid ordin bist — hann sig ej þeckja sagdi; þá gól nú haninn fyrst; ætlar sér út ad rýma, önnur þerna hann sá, talar í annann tíma, til þeirra' er stódu hjá:

6. Af Nazareth nú er þessi, nýkominn Jesú med, hinnar géd trú' eg þad hvessi, hverr madur spyrja réd: ert þú einn af hans sveins-

um? en Pétur neita vánn; sagdi med eidi einum: aldrej þeckta eg hann.

7. Þridja sinn þar til løgdu, þjónar Kaiphas's bert, málsærid sumir søgdu, segir til hvørr þú ert; frændi Malchus's réd mæla: mundi eg þig ecki sjá — gét eg síst grun mig tæla — í gardinum Jesú hjá?

8. Pétur med bljúgu bragdi, brádlega sagdi: nej! sór sig og sárt vid lagdi, svoddan mañ þeckti' hañ ei. Gløggt þegar gjørdist þetta, gól haninn annad sinn. Síst mátti sorgum létta, sút flaug í brjóstid inn.

9. Sál mín! þér sári forda, freklega voga síst, án leyfis Drottins orda; óstyrkt er holdid víst, þykist þú stødug standa, stilla þinn mernad þarft; hvørr sér vogar í vanda, von er sá falli snart.

10. Adur í aldingardi, óhræddur Pétur var, karlmennsku hugurinn hardi, hans sig auglýsti þar; audvyrd ambátt hann hrelldi, ofmjog þos skélfast vann, frá sannleik sídan felldi, sama þig henda kann.

11. Kol-eldi qveiktum jafnast, kitlandi veraldar prjál, þrælar syndanna safnast, saman vid losta bál; fullir med fals og villu, fordastú þeirra glis, ætíd er med þeim illu, einfoldum búid slis.

12. Ambátt med ýlgdu bragdi, er þessi verold leid, morgum mein-snorur lagdi, mjog á spott-yrdin greid; þýid med þrælum sínum, þjóna Guds lastad fær; styrk mig med mætti þínum, mót henni, Drottinn kjær!

13. Eptir afneitun eina, út vildi Pétur gá, huadi hann braut sér beina, búna þeim solli frá. Þá kom eitt odru verra: umkríngdu þrælar hann, afsór sín sæla Herra, sér og formæla vañ.

14. Hægt er hverjum ad stofna, í hættu' og, vanda-spil, forvitnis dælskan dofna, dregur þar marganu til; ógæfu goldran þrauuga, greip skjótt þann kunni ná, útkomu von féck enga, ad því í tíma gá.

15. Opt má af máli þeckja, mañiñ hverr helzt hañ er, sig mun fyrst sjálfañ blecksa, sá med lastmælgi fer, gódur af gédi hreinu, gódordur reynist víst, fullur af íllu einu, íllyrdin sparar síst.

16. Hriggileg hrafan hendti, heilagañ Drottins þjón, syndin mjog sárt hann spennti, sálar var búid tjón; hvad mun eg mättar naumur, mega þá standast vid, vangætiñ, vesæll og aumur, vjelum og hreckja snid?

17. J veraldar vondsku solli, velkist eg, Jesú! hér, falli þad opt mér olli, óstodugt holdid er, megnar ei mót'ad standa, mín hreysti náttúrlig, láttú þitt ljós og Anda, leida og styrkja mig!

## 12. Sálmur.

Lagid; Kom Andi heilagi.

Pétur þar sat í sal, hjá sveinum iñi, tvenne hafdi hana-gal, heyrt ad, því sinni.

2. Búiñ var þrisvar þá, þvert hann ad neita, sér Jesúm sælañ frá, sorg má þad heita.

3. Drottinn vor veik sér vid, víst um þad Pétur, ljúfur med líkyar sid, og leit á Pétur,

4. Strax flaug í huga hans — hvad þó síst vardi — Lausnarans ord og ans, i aldingardi.
5. Blygdadist brátt vid þad, brjóst fullt af trega, géck út úr greindum stad, og grét beisklega.
6. Sjá þú med sannri trú, sál mín ástkjæra! hvad framar hefir þú, hér af ad læra.
7. Hátt galar haninn hér, í hvers manns gédi, drýgdar þá syndir sjer, sem Pétur skédi.
8. Sárlega samvitskan, sekañ áklagar, innvortis aumañ mann, ángrar og nagar.
9. Fær hañ sig frjálsañ síst, þó fiñist hrelldur, sem fugl vid snúníng snýst, þeim snaran heldur.
10. Víkja þó vilji hañ, frá vondsku hætti, orka því ecki kañ, af eignn mætti.
11. Upp þó sér ætli brátt, aptur ad standa, fellur hañ þegar þrátt, í þýngri vanda.
12. Lögmál Guds hrópar hátt, hana-gal añad, segir og sýnir þrátt, hvad sé þér bannad.
13. Pad þvíngar, þrúgar med, þad slær og lemur, sorgandi syndugt géd, særir og kremur.
14. Pad verkar sorg og sút, þeim seka mañi, hjálpar þó engum út, úr synda banni
15. Holdid þar þrjótskast vid, og þykir ílla, eykst á þañ synda sid, svik, hræsni' og villa.
16. En Jesú álit skírt, Anda Guds þýdir, sá gjörir hægt og hýrt, hjartad um sídir.
17. Lætur hañ lögmál bist, lemja og hræda, eptir þad ser hañ fyrst, ad frida' og græda.
18. Ord Jesú edla sætt, er hans verkfæri, helzt fær þad hugann kjætt, þó hrelldur væri.

19. Hann gékur hreina trú, hañ fallið reisir, hañ veikañ hressir nú, hañ bundið leysir.

20. Eckí er í sjálfs vald sett — sem nockrir meina — yfirbót, ydran rétt, og trúin hreina.

21. Hendi þig hrasan bráð, sem helgañ Pétur, undir Guds áttú náð, hvert ydrast gétur.

22. Heimska er versta víst, við það að dyljast, þú munir þá þér lítst, við þrautir skiljast.

23. Ef Jesús að þér snýr, með ástar hóti, líttú þá hugar hýr, honum á móti.

24. Gráta skalt glæpi sárt, en Gudi trúa, elska hans orðið klárt, frá öllu snúa.

25. Ouýt er ydran tæp — að því skalt hyggja — ef þú í gjördum glæp, girnist að liggja.

26. Pétur þá formerkt féck, full-hrosun slíka, úr synda-saltnum gékk; svo gjör þú líka.

27. O Jesú! að mér snú, ásjónu þiñi, sjádú mig særdann nú. á sálu minni.

28. Þegar eg hrasa hér — hvad mjög opt sañast — bend þú í miskun mér, svo megi'eg vidkañast.

29. Opt lít eg upp til þín, augum grátandi, líttú því hýst til mín, svo leysist vandi.

## 13. Sálmur.

Lagið: Jesús Guds Son eingétinn.

Foríngjar Presta fengu, fals-vitni mörg tilsett; fúsiega fram að gengu, fullir með svik og prett; samhljóda urdu eigi, uppdiktað margt þó segi. Jesús þá þagdi sljett.

2. Lær þú, ef lýgum mætir, lífs-reglu, sál mín! hér, med forsi'og þjóst'ei þrætir, þrálega svo til ber, hógvær þögn heiptir stillir, heimsk-ordur sanleik' spillir, opt fyrir sjálfum sér.

3. Hyrdt'aldrei, hvad sem gyldir, ad hætta'á ósatt mál, hvert verja' eda sækja vildir, verdur þad mörgum tál; múñur sá laungum lýgur, frá lucku'og blessun hnígur, hañ deydir sína sál'.

4. Sañleiks vitni þó segi, sekañ mig Gudi hjá, óttast þarf eg nú eigi, afsökun hef'eg þá: ljúgvotta lýgi megna, leid Jesús minna vegna, klögun mig keypti frá.

5. Kaiphas frétti fyrstur, falsklega Herrañ ad: sjálfur hvert sé hañ Kristur? og svo eñ framar qvad: vid sañañ Gud eg þig særi, ef Sonur hans ert' hiñ kjæri, segdú oss satt um þad.

6. Jesús játar ad stundu, jafnframt því svo nam tjá: Son Mañsins sjá þeir mundu, sitja þadan í frá, til Kraptarins hægri handar, og hér eptir komanda, skjærasta skýi á.

7. Kéñimañ reyf sín klædi, qvad: slíkt gudlastan er! adspyr, med ógna brædi: um þad hvad haldid þér? allt Rádid undirtekur: ér hann víst dauda sekur, svoddan samþyckjum vér.

8. Jesús ei ansa hirdti, ádur þá sogid var, Guds nafn þó gjarnan vyrdti, gaf því Kaiphas' svar. Lygd heims þó litid sætir, Lausnarans dæmis gætir, leita Guds lof-dýrdar.

9. Hygg ad og herm þid saña, hvenær, sem til er reynt, hræðst' ej hótanir maña, haldt' þiñi játníng' beint; gæt vel ad geymir þetta, Guds ord og trúna rétta, medkénndú ljóst og leynt.

10. Kaíphas's lögsögn leida, lært hafa marg- ir eñ, hvad, sem Hofdíngjar beida, hinir álykta señ, vinskap sig villa láta, viljandi raungu játa; fordist þad, frómir ménn!

11. Sú er mín huggan sama, sem þín var, Jesú miñ! krossiñ þá ad vill ama, ofsókn og hormúng stiñ, hjá þiñi hægri hendi, hér þó ad lífid endi, fagnadar nægd eg finn.

12. Þér til gudlostun lagdi, ljúgandi Kéñi- mañ, dauda sekañ þig sagdi; sañlega úrskurd þañ, átti' eg ad heyra heldur, hardt med réttu sakfelldur, víst eg nóg til þess vann.

13. Andlegt vald einum rómi, úrskurdar daud- añ þér; Drottiñ í nádar-dómi, dæmir því lífid mér. Þacka eg elsku þiñi, þú keyptir sálu miñi, frían og frelsi hèr.

## 14. Sálmur.

Laeid: Skapari stjarna, Herra hreinn!

Eptir þann Dóm, sem allra fyrst, Andlegir dæmdu'um Herrañ Krist, hafa þeir — því ad þá var nótt — þegar til hvíldar gengid skjótt.

2. Drottiñ vor eptir þreyttur þar, þræl- um til gætslu fengiñ var, gjördi ad honum gis og dár, gudláusra manna flockur þrár.

3. Hádúng, spottyrdi, hróp og brixl, hvert lét med ödrum gánga'á víxl, hræktu og slóu Herrañ þar, hañ þó á medan bundinn var.

4. Sjá þú og skoda, sála min! saklausa lambsins beiſku pín, hugsa vandlega um það allt, af þessu hvad þú læra skalt.

5. Hañ, sem ad nætur-hvíld og ró, hverri skepnu af miskun bjó, í sinni ógna eymda stæd, engann kost ieck á neinni værd.

6 Hvíldar-nótt marga hef eg þád, Herra Jesú! af þiñi nád, qvel þín e undum mig keypti frá. kunnast eg nú vid gædsku þá.

7. Nær sem eg reyni sorg og sótt, seinast od-kénnur daudans nótt, nætur-qvala, sem neyddu þig, niota látiú þá, Jesú! mig.

8. Samvitsku sleg og Satans hát, sesi, Jesú! þín blessud nád, eiboð daudans og andláts pín, aft kvog mýki gædskan þín!

9 Morgur — og víst þad makleat er — mjög þessum skálkum forn œer. þó finnest nockrir hér í heim, ad hegdun allri líkir þeim.

10. Hvad gjora þeir, sem hér á jord, hafa ad spotti Drottins ord, lifa í glæpum ljést — til sanns — lasta og forsmá þjéna hans?

11. Sá, sem Guds nád og sannleikann, sjer, þeckir, veit og skenja kann, fukl og sjelfingi kynnir sér, Kaiphas's þrælum verri er

12. Soniñ Guds ecki þeckiu þeir, því syndoga hinir lángtum meir, sem kallest vilja kristnir best, Kristum þó lasta allra mest.

13. Hræmarot þeir, sem hrecki og synd, hylja þó undir frómle es mynd, líkjast þessum, sem Lausnarann, lemdu blindandi og spjotu hann.

14 Hverjum, sem spott og hæðni'er kjær, hañ gengur þessum selskap nær, forsmán gudrækins f:tæks mañs, fyrilitníng er Skaparans.

15. O, vesæll madur! ad því gá, eptir mun koma tími sá, sama hvad nidur sádir hér, sjálfur án efa upp þú skér.

16. Ef hér á jord'er hróp og hád, hæðni' og gudlasti niduriád, uppskorid verdur eilíft spé, agg og forsmán í helvíte.

17. Ætla þú ecki, aumur mañ! afkomast muni straff laust hvñ, sem Soniñ hefir hér hædt og spjad, hvorsi Fadirinn uppá þad.

18. Hvad Jesús nú nm nætur-skeid, naudstaddur hér af moñum leid, ógudlegur um eilífd þá, af íllum Djoflum líða má.

19. Okéñdum þér, þó aumur sé, aldrej tillegg þú hád né spje, þú veitst ej hvern þú hittir þar, heldur enn þessir Gydíngar.

20. Sjálfañ slær mig nú hjartad hardt, hef eg án efa mikiñ part, af þeirri íllsku ástundad, audmjúklega eg medgeng þad.

21. Sád hef eg nidur synda rót, sviývyrdíng mín er morg og ljót; uppskéru-tímann óttast eg, ángrast því sálin nærsta mjog.

22. Herra minn Jesú! hormúng þín, huggan er bædi'og lækníng mín, sakleysi víst þú sádir hér, sælunnar ávoxt gafstú mér.

23. Blód-dropar þínir, blessad sád, ber þann ávoxt, sem heitir nád, þañ sama Gud mér sjálfur gaf, sáluhjálp mín þar sprettur af.

24. Hædd-

24. Hæddur varstú til heidurs mér, hegg þín og sleg mín lækníng er, aldrei mún Djöfull eiga vald, á mig ad leggja synda-gjald.

25. En þér til heidurs aptur á mót, ydrast vil eg og gjora bót, holds vilja gjarnann hefta mīn. Hjálpi mér, Jesú! kraptur þinn!

## 15. Sálmur.

Lagid: Krists er koma fyrir hondum.

Miðg árla uppi vóru, Ölduńgar Júda sēn, svo til samfundar fóru, fyrstir þó Kēñimeñ, í rádslag létu leidast — líkar þad ollum vel — hvernig þeir gætu greidast, Guds Syni komid í hel.

2. Heimtu med heiptar-lundu, Herrann vorn til sín brátt, orsök því enga fundu, allir senn mæltu hátt: seig oss, ef ert þú Kristur, einasti Son Guds sá? Grædariñ gædsku lystur, gaf andsvar þar uppá:

3. Þó ydur eg þad segi, ecki samt trúid þér, andsvarid mér og eigi, ef eg spyr nockurs hér; Maññsins Son sjáid sitja, sēñ hjá Guds hægri hlid, í skýi mun einnin vitja, aptur med dýrdar sid.

4. Ertú Guds Son, þeir sögdu! svaredi Drottinn: já! djarfir þenn dóm á lögdu: dauda-madur er sá. Uppstédu strax ad stundu, stríd þeim í hjarta brañ, Frelsarann fjötrum bundu, færdu Pílató hann.

5. Hér máttú, sál min! sjaña, svo genġur þad til víst, ástundan illvirkjaña, umhyggju vants-

ar síst, árla þeir blundi bregda, binda fest oll sín ráð, klókt ega hreckjum hegda, hverr, sem þeis fengi gáð.

6 En þá, sem átt ad vera, útvaliñ Drottins þjón, ve k h. ns og vilja géra, og varast þitt sá ar tjón, andvara engañ hefi, umhyggju-lítill sjest, vid alis heims gálaus sefur; Gud nádi svoddañ brest!

7. Morgir upp árla rísa, ej géta sofid vært, eptir aud heimsins hnýsa, holts vœmd er þeim kjært; sálin í bráésti sofnud, sýnist ad mestu daud, til allra dygda dofnud, sem Drottinn helzt þó baud.

8. Forsjónar verkmeñ v'sir, víngardi Drottins í fyrst þá dags-hóniñ lýsir, hýst bid eg gætid ad því: um sitt embætti hvagi, árla gjört banin sé, vdjulaun er ej liggi, í líkh m vs ajálíre.

9. Hajurs meñ Herrens v. k., hugsandi ad giora tjón; eptir því ártu ad t. ka, ef ertu hans trygdo-þjén, viljir þú vid þeim sporna, og ver st-þeirra hád, árla dags alla morgna, vid ord Guds h-ldtú ráð.

10 Þenk nú í þínu hjarta, þar nærst í aññañ stad, hvar um Herran réd qvarta, hvagja mattu þar ad: ordum hans ecki treystu, illojarnir Júdar jeir, úr spurning engri leysu æ þeí vestmudu meir.

11. Hver trúir nú hardt þó hóri, Herrañ syndugum lýd? allfær str mã' á móti, vdrvuner skorin blíð; hirtíngar hjálpa ecki, heimur vesnandi fer, blindleikiñ trú'eg oss blecki, búid straff nálægt er,

12. Víst er eg veikur ad trúa, veistú þad, Jesú! best, frá syndum seinn ad snúa, svoddan mig ángrar mest; þó fremast þad eg megna, þínum ordum eg vil, treysta og gjarnan gégna; géf þú mér náð þar til!

13. Þar næst ad þessu gætir, þad er og lærdóms grein: ef þú órétti mætir, affsakan dugir ej nein, hafdú þá bidlund hýra, Herrann mun til þín sjá, lát þolgéds dæmid dýra, Drottins þig hugga þá.

14. Mér er, sem í eyrum hljómi, úrskurdur Drottins sá, árla á efsta Dómi, upp þegar daudir stá: affsakan ej mun stoda, andsvor né spurníngar, hañ stendur víst í voda, sem verdur sekur þar.

15. Hér er nú kostur ad heyra, Herrann talandi í nád, opni Jesús mitt eyra, svo ad því fengi gád; hógvær vors bata bídur, blessadur þessa tíd, annars heims er hann strídur, öllum forherdtum lýd.

16. Arla úrskurdinn lögdu, á þig Gydíngar þó, Jesú! og sekann sögdu, seldu þig Pílató. Arla á efsta degi, affsakan gyldir sú, til dauda eg dæmist eigi, Drottinn! þess minnist þú!

17. Arla dags uppvaknadur, ætíd eg minnist þín, Jesú minn! hjálpar hradur, hugsa þú æ til mín! árla á efsta Dómi, affsakan vertú mér, minnstú þá, Frelsarinn frómi! hvad fyrir mig leidstú hér.

## 16. Sálmur.

Lagid: Konúng David, sem kénndi.

Júdas í girndar grádi, af Gydíngunum fyrst, þrjátíu penínga þádi, því sveik hañ Herrañ Krist; ljóst þegar líta vañ Drottiñ var nú til dauda, dœmdur og þúngra nauda, ydradist eptir hann.

2. Greidt í Musterid gengur — greinir svo Ritníng frá — um silfrid siñi' ei lengur, senn vill þad Prestum fá, sagdi, med sárum mód: o! hvad eg gjördi ílla, þá yfir mig kom sú villa, ad sveik eg saklaust blód.

3. Lídsemd Prestarnir legdu, litla, sem von var ad, hardlyndir honum sögdu: hvad egum vér med þad? þú mátt einn sjá um þig. Silfrinu' á góifid grýtti, gêck þadan, mjøg sér flýtti, og hengdi sjálfann sig.

4. Rádstefnu Herrar héldu, hættu þar seinast vid, fyrir akur sjálfir seldu silfrid Leirkéra smid. Adur sagt um þad var, í spádóms sögnum sönnum, sá var vegferdarmønnum, géfinn til greftrunar.

5. Sjá hér hvad íllañ enda, ótrygd og svikin fá, Júdasar líkar lenda, leiks-bródur sínum hjá; Andskotiñ íllsku flár, eñ hefir snoru snúna, snogglega þeim tilbúna, sem fara med fals og dár.

6. Otrú siñ egiñ Herra, ætíd um hálsinn sló, enaiñ féck af því verra, eñ sá meinlausum bjó, forrædi; fals og vjel; Júdas því henging hendti, hañ sölskum til sín bendti, eins og Achitóphel.

7. Fé-girndin Júdas felldi, fyrst var hans adtekt sú, Guds Son Gydíngum seldi, gleymdi því æru' og trú, svo til um sídir géck, kastadi keyptum audi, þá qvaldi sorg og daudi, huggun alls enga féck.

8. Undir-rót allra lasta, ágirndin kollud er, frómleika frá sér kasta, fjárplógs-meñ íllgjarner, sem freklega elska fjed, audi med okri safna, andlegri blessun hafna, en setja sál' í ved.

9. Añadhvert er í vonum, audurinñ fagur nú, hafnar þér, ellegar honum, hriggur burtkastar þú, þá daudinñ þrengir ad, ágirndin ótæpt svelgir, af því sálina velgir, í keldum qvala-stad.

10. Falsi og fégirnd rángri, forda þér, sál mín! blíd, svo mætir ei ógn né ángri, þá adfer daudans tíd, vyrd lítils veraldar plóg, hverr, sá sér lynda lætur, þad lénar Drottinn mætur, sá hefir alls nægta nóg.

11. Opt Jesús ádur hafdi, áminníng Júdas' gjort, hreckvísin hjartad vafdi, hann héldt þad einkis verdt, nú kom þar einñig ad, tilsögn hatadi hreina, huggun féck því ei neina, varastú víti þad.

12. En hvad framleiddi hañ ílla, ádur líferni sitt, þeisi þó var hans villa, verri' enn allt añad hitt, ad hañ örvænting med, sál og líf sett' í vanda. Synd á mót' helogum Anda, held eg hér hafi skéd.

13. Í Drottni' ef viltú deya, Drottni þá lifdú hér, til ílls lát ei þig teygja, ord Guds sé kjærast þér; sæll er sá svo vid býst! en ef þig ófall hendir, aptur í tíma vendir, undandrag ydrun síst.

14. Brot þín skalt, bljúgur játa, en bið þó Guð um náð, af hjarta hriggur gráta, en heilnæm þyggja ráð; umfram allt þenktú þó: Son Guðs bar þínar syndir, og svo þú miskun finndir, saklous fyrir sekann dó.

15. Drottinn! lát mig ej dyljast, djarflega syndir við, þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess eg bið: þá heimi fer eg frá, örvænting ej mér grandi, orð þitt og sanleiks Andi, hjarta mitt huggi þá!

## 17. Sálmur.

Lagið: Faðir á himna hæð.

Svo sem fyrr saat er frá, sylfur-peninga þá, hverjir loks Júdas hreldu, Höfuðprestarnir seldu.

2. Og keyptu einn — til sanns — akur Pott'-makarans; þar má fullt frelsi hafa, framandi menn að grafa.

3. Þar finst ein þýding fin þess gættu, sála mín! af Guðs ásettu ráði, um það Zacharías spáði.

4. Líkist Leir-kéra smið, líknsamur Drottinn við, sem fyrr Esajas sagði, sjálfur það rétt útlagði.

5. Af leir með lífsins krapt, lét hann mankynið skapt, hrein kér til heiðurs setur, hin önnur lægra metur.

6. Drottinn einn akur á, er honum falur sá, minnstu hann miskun heitir, mæddum lýð hugg-un veitir.

7. Jesús einn er sá mann, sem akurinn keypti þann, en hans blóðdropar blíðir, borgunar gjaldið þýðir.

8. Fattmörkt fólkid þad, sem féck ei neinn hvíldarstad, ex um vér jörgum setnir, af syndugu edli getnir.

9. Jn skynnar edlid vort, útlenda hefir gjört, oss frá eilífri gledi, í Adams falli þad skedi.

10. Sálin í útlegd er, æ medan dvelst hún hér, í holdsins hreysi naumu, haldin fángelsi aumu.

11. Daudinn med dapri sút, dregur um sídir út, hana þá hreysid brotnar, holdid í jördu rotnar.

12. Eins og útkastad hræ — ef ei vér skynjad fæ — hjálparlaus sál má heita, hvílar kann sér ej leita.

13. Hættu og hörmúng þá, Herra minn Jesús sá, oss vora' af ást og mildi, úr útlegd kaupa vildi.

14. Fadirinn falt þad lét, fridar-stad sálum hét, ef Sonurinn gjald þad greiddi, sem Guds réttlætid beiddi.

15. Opnadi sjódinn sinn, Sonur Guds, Jesús minn! húdstrýktur, qvalinn, krýndur, á krossi til dauda píndur.

16. Blód-dropar dundu þar, dýrasta gjald þad var; keyptan akur því eigum, óhræddir deya megum.

17. Hér þegar verdur hold hulid í jardar mold, sáin hrigdarlaust hvílir, henni Guds miskun skýlir.

18. En þú skalt ad því gá: akursins greftrun þá, engir útan þeir fengu, í Jerúsalem gengu.

19. Kristnin Guds hér um heim, heitir Jerúsalem, í hana' innkomast hýtur, hverr, sem miskunar nýtur.

20. I heñi hverr eiñ sá er, á Jesúm trúir hér, skírdur og alla vega, ydrun gjörir daglega.

21. Oqvídiñ er eg nú, af því eg hef þá trú: miskun Guds sálu mína, mun taka í voktun sína.

22. Hvernin sem holdid fer, hér þegar lífid þver, Jesú! í umsjón þiñi, óhætt er sálu minni.

23. Eg lofa, Lausnari! þig, sem leystir úr útlegd mig, hvíld nær eg nádar-spakri, nú í miskunar akri.

24. Þú gafst mér akuriñ þiñ, þér géf eg aptur miñ, ást þína á eg ríka, eig þú mitt hjartad líka.

25. Eg géf og allañ þér, æ medan lif eg hér, á-extinn ydju minnar, í akri kristni þinnar.

26. Eins bid eg, aumur þræll: ad unnir þú, Jesú sæll! lidnum líkhama mínum, legstad í akri þínum.

27. Hveiti-korn þecktú þitt, þá upprís holdid mitt, í bindini barna þinna, blessun lát þú mig finna!

## 18. Sálmur.

Lagid: Sælir eru þeim sjálfur Gud.

Arla, sem gloggt eg greina vañ, med Guds Son bundiñ fara, Prestarnir, svo ad píndist hañ, til Pílatum Landsdómara; í þínghús iñ þad sama siñ, sagt er þó engiñ kjæmi, svo ecki meir, saurgudust þeir. Sjá hér hræsninnar dæmi.

2. Iñgáng um húss-dyr heidíngjans, héldu þeir synd bañada, en saurgast á blódi saklauss mañs, syndist þeim engañ skada. Heims bornum hér, óvgrdíng er, aumstoddum hjálp ad

heita, Guds ords forákt, ágyrnd og prakt, engin misgiörd skal heita

3. Pilatus, sem það formerkt fèck, fyrst ej þeim metnad sætti, án dvalar sjálfur út því géck, embættis skyldu gætti, sakargift þá, vill fulla fá, framborna af þeirra muñi, dáryrdin sljót, drambsemi mót, Dómarinn sinna kunni.

4. Lát þér ej vera afmán ad, ef þú vilt frómur heita, af Pilató ljóst ad læra það, sem loflegt er eptir ad breyta; ránglætid hans, þess heidna mañs, haldt þér minkun tvöfalda, þeim midur fer, enn honum hér, hverr vill þañ kristinn halda.

5 Alitid stórt og hefdar hátt, hrædast skyldir þú ecki, sannleikans gæta ætíd átt, engin kjafsmál þig blecki. Æru-girnd ljót, hefmódug hót, hæfir síst yfirmonnum, drambláturn þar, þú géf andsvar, þó byggt á rokum sonnum.

6. Øldúngar Júda allra fyrst, uppbáru sök þrefalda: fólkinu þessi fráshýr víst, fyrirbýdur ad gjalda, Kejsarans skatt, það segjum vér satt; sjálfur vill Kóngur heita; og Kristur sá, sem koma á, qvittun og frid ad veita.

7. Hér koma fram þau réttu rok, rædu og þánka mina! þér, Jesú! géfin var þrefold sok, það kañ eg gloggt ad fiña; þrefaldleg sekt, mig þjádi frekt, þar um eg klagast mætti; þrefalda styggd, og þúnga lygd, þú leidst med sogdum hætti.

8. Fráshúid Gudi allt mitt-er, edlid og líf fáneyta, odrum því géf eg opt af mér, íll dæmi svo

ad brenta; en hér á mér, með ekki bót, ell Guðs boin rétt því trúa, sé boðum deyð, þjesli og neyð, Drottinn réð lýðnum sína.

9. Guði átti'eg að greiða frí ajald, hýðni og þackar-skyldur, ránalega hef'eg haldið því, hendl að sem þræll óguðlu: auðsé n n þín, fy r oll um skín, ástsemdar Herrann kjæri! þú beutst: gésið, gafst sjalfur með, hvað Guðs og Keisarans væri.

10 Sannlega hef'eg hrokað mér, hærra enn vera skyldi, boð og skipun míns Herra hér, haldið í minsta gyldi, Kóngdóm í heim', og heidri þeim, hafnaðir þú og slýðir, hátignin þín, á himnum skín, hún mun birtast um síðir.

11. Rægdur varstú fyrir ránga sök, réttláti Jesú mildi! uppá það oll mín íllsku rok, afplánuð verða skyldi; áklagan sú, sem bolðu þú, þess bið eg, Herrann frómi! sé mitt forsvar, þá finst eg þar, fyrir þeim stránga dómi.

# 19. Sálmur.

Lagið: Mitt hiarta! því svo hriggist þú.

Gyðíngar hef u of harri fy r, harðlega klagað Jesúm Krist, sem áður sagt er frá, Landsdóm rinn, jorðt'aðgá, greggt hvað þýddi framburður sá

2. Áklagan fyrsta andlea var, um það Pílatus finnt'ej þar, onnur um skyldu skatt; hann vissi vel þeir sogðu' ej satt, svoddan málum þegjandi hratt.

3. En sem þeir nefndu Kónginn Krist, kom honum þá til hugar fyrst, hvad áður heyrdi' og nam, af Júdum mælt um Messiam, ef mætti ské þad kjæmi nú fram.

4. Pilatí siñ' í sumum fiñst, sem um Guds dýrkun hugsa miñst, hofdíngjum hræsna tídt, undirsáta frelsid frítt, fjárplógs-gjarnir ræk ja nú lítt.

5. Hirdstjórinn spurdi Herrañ þá: hvert hann sé Júda Kóngur sá? en Jesús aptur tjer: talar þú svo af sjálfum þér, eda søgdu adrir þvílikt af mér.

6. Þá vard Pilatí þelid kaldt, þig, hatar — sagdi' hann — fólkid allt, hvad íllt hefir þú gjert? aptur Jesús ansar bert: — er þad nærsta þenkíngar-verdt —

7. Mitt ríki' er ecki hédan af heim, hardt mundi añars móti þeim, strída minn maktar her, sem nú mig seldu' í naudir þér, svo nædu ecki Gydíngar mér.

8. Pilatus aptur ansa vañ: ertú þó Kóngur? — sagdi' hañ — Játadi Jesús því; híngad barst eg heimiñ í, ad hérma skyldi' eg sannleikann frí.

9. Hverr af sannleiknum sjálfur er, sá mína røddu heyrir hér. Hædnis-svar hinn til sann: hvad er sannleikur? — sagdi hann — svo geck burt med úrskurdinn þann.

10. Hér máttú, sál mín! heyra fyrst, Herrann Jesús er Kóngur víst, þó ecki' ad heimsins hátt; svoddan vel þú athuga átt, þad eykur gledi hjartanu þrátt.

11. Kóngs-tign þín, Jesú! eilíf er, allir þyggja sín vold af þér, hofdíngjar hér um heim, þú lénar, gefur, lánar þeim, londin, ríki, met-ord og seim.

12. Fyrir þinn krapt og frelsis-hond, forsvara Kóngar ríki'og lond, sem er þeim undirlagt; en móti Djofli og daudans makt, dugir engin Hofdíngia vakt.

13. Þú hefir sigrad synd og deyd, sjálfañ Djofulog vítis neyd, hádir eitt herlegt stríd, allañ svo þinn leystir lýd. Lof sé þér um eilífa tíd!

14. Andlegt þitt ríki'og eilíft er, ord sannleiks því rétt stjórnar hér, þiñ veldis-vondur sá, óvini slær mér alla frá, í þeim krapti sigra eg þá.

15. En fyrst þitt ríki andlegt var, um þad heimurinn sinnti' ei par, hann fann ei hofmód sinn, hjá þér, Jesú Herra minn! hatadi allann gódvilja þinn.

16. Undrast því, sál mín! ecki þarfst, þó adkast veraldar lídir margt, þar um þér þenkja ber, ertú nú í útlegd hér, añars heims þitt fodurland er.

17. Sannleika-Kóngsins sannleiks raust, sá þarf ad elska hræsnislaust, sem er hans undirmann, því slægd og lýgi hat..r hann, hreinhjortudum miskunar ann.

18. Ef þú, mín sál! í Gudi glodd, girnist ad heyra Kóngsins rodd, gættú þá gjorla hér, hvad boda Drottins þjónar þér, þeirra kénning raustin hans er.

19. Ransaka, sál mín! ord þad ort, ad verdur spurt: hvad hefir þú gjort? þá Herrañ helds

íar dóm, hjálpar engum hræsnin tóm, hrein sé trú í verkunum fróm.

20. En sökum þess þú ei saklaus ert, sjálfa spyr þig: hvad hefir þú giört? um hvern umlidinn dag; ydrun gjör og grát þin hag, Guds Son bid þad fæta í lag.

21. Allt hef eg Jesú! illa giört; allt þad ad bæta þú kominn ert, um allt því eg qvittur er; allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bid eg, hjálpa þú mér!

## 20. Sálmur.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Pílatus hafdi prófad nú, pínslar-sök Jesú géfna, klén ydrdtist hónum Kóngs-tign sú, þá Kristur sannleik réd nefna, heims sannleik heidra létst, hæddi Guds sannleik mest, sannindin elska ber, ord Drottins láttú þér, kjærast þó allra efna.

2. Jafnódt þá gánga Jarlinn réd, til Júda út ad bragdi, enga sök þessum manni med, má eg finna — hann sagdi — Gydíngar heldur hardt, Herrann klögudu um margt, med ædi, ógn og dramb', eins rétt og meinlaust lamb, Lausnarinn ljúfur þagdi.

3. Hann hefir uppæst lýdinn lands, lengi mjög vída kénndi, frá Galílæu' og svo — til sanns — um sídir allt hingad vendi. Pílatus hugdi hér, hrinda þeim vanda' af sér, Heródes hafdi því, hirdstjórn þeim parti í, til hans því Herrann sendi.

4. Fyrir mig, Jesú! þoldir þú, þjáníngu'og beiska pínu, hjartad gledst, því eg heyri nú, hrósad sakleysi þínu; syndin lá sárt á mér, sok fanst engin hjá þér, svo er sakleysi þitt, sannlega ordid mitt, vid málefni tókstú mínu.

5. Logmál Drottins þá hefndum hardt, hótar mér eptir venum, aptur minn Jesús ansar snart: engin sok finst med honum! sakleysi mitt — til sanns — segi'eg nú ordid hans, engin áklagan fljót, orka skal neitt á mót, mínum þol-lyndis þjónum.

6. Ondyrju-hjal og mælgin mín, mér til falls koma ætti; en, Jesú! blessud þognin þín, þad allt fyrir mig bætti, skolda mín aptur er, eptir ad breyta þér, þegjandi'í þýdri trú, þola, nær líd eg nú; þorf væri þess eg gætti.

7. Pílatus meinti manvits slægd, mundi ó-brygdul standa, koma vill því med kjænsku nægd, Kóng'Heródes'í vanda. Kunna þá adferd enn, allmargir veraldar menn; bid Gud og gæt þín vel, gjarn er heimur á vél, gálausum svikin granda.

8. Kross-gángan, Jesú! þessi þín, þar fyrir eflaust skedi, svo hvílast mætti sálin mín, sætt í eilífri gledi. Embættis ómak lángt, opt þó mér finst strángt, til lofs og þócknunar þér, þad vil eg gjarnan hér, lída med ljúfu gédi.

## 21. Sálmur.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þegar Heródes Herrann sá, hann vard mjög gladur nærsta, af honum heyrt hafdi'og

helzt vill fá, hans áſýnd líta glæſta, forvitni mörgu frétti ad — ſýn holdſins kapp á lagdi, med biſtu bragdi — Jeſús tók ecki undir þad, vid öllum ſpurníngum þagdi.

2. Margir finnaſt enn hér um heim, Heródis líkar réttir, Guds ord er ſkémt og gaman þeim, ſem glens eda nýar fréttir; forvitni-holdſins hnýſir þrátt, í Herrans leyndardóma, med fýſn ej fróma, aumri ſkynſemi ætla' of-hátt, aldrej til ſkilníngs koma.

3. Mannvits djúpſindni'og menta glis, margir þá vilja reyna, ad ordi Drottins þeir gjöra gis, gaman loſlegt þad meina; varaſtú, ſál mín! vítin reynd, vyrd þú í hærſta gyldi, þá miklu mildi, alvarlega med gódri greind, Gud vid þig tala vildi.

4. Gud gjörir ecki'ad gamni ſér, glæpa-mönnum ad hóta, kalsmælgi honum og engin er, ad þú megir miſkun hljóta; audmjúklega med allri gát, áttu um ſlíkt ad ræda, og ſleiri fræda, en af þér heyraſt aldrej lát, ord Drottins ſkulir þú hæda.

5. Heyr'eg um þig, minn Herra! rædt, í hjálpræðis ordi þínu, allt ſýniſt mér þá búid og bætt, bolid í hjarta mínu, i Sakramentinu ſje eg þig, ſvo ſem í líkíng ſkjærri, med nád mér nærri, o! hvad gledur ſú áſýnd mig, engin finnſt huggan ſtærri.

6. Heródis fýſn var holdleg ſú, hann réd forvitni ginna; en mín ſála af áſt og trú, andvarpar þig ad finna, loſſamleg er ſú lucku-ſtund, þá lít eg þig, Herra þýdi! í þinni prýdi, géf mér lokſins þann fagnadar fund, þó fyrſt um ſinn hér bídi.

7. Það kénnir Herrans þögnin fróm, þat nærst í añañ máta: hañ vill ej sínum helgidóm, fyrir hunda kasta láta, Drottiñ forsmáir dramb-samt geð, djarflega margs þó freisti, og frekt sér treysti, hugstolltum niður hrinda réð, hógværa sál við reisti.

8. Heródes og hans hof-fólk litt, um Herr-ann akta vildi, færði hañ í eitt fatið hvítt, forsmán það heita skyldi; til Pílatum síðan sendur var, svo komst í friðar stilli, sá ofs-inn illi, drambsöm ófundin áður bar, óvin-skap-þeirra' á milli.

9. Hvítt klæðið gjörði háðúng þér, Herra minn Jesú sæti! dýrðar-skrúða svo skenktir mér, skínandi Guðs réttlæti; sakleysis merkið þetta þitt, þíns Föðurs gæðskan hreina, þá þeckti' all-eina; hann sjer og prófar hjartað mitt, hvað sem illgjarnir meina.

10. Heilagra sálna hópur skjær, á himnum með skickun fríða, til heiðurs þér, Jesú Herra kjær! hvítum klæðum sig skrýða; eins hér á jörðu upp frá því, eflaust í minníng slíka, með reksemd ríka, birtust snjóhvítum búníng' í, bless-aðir Englar líka.

11. Veittú, Jesú! þá miskun mér, meinleysis skrýddur klæði, þjón'eg tállaust með trygðum þér, í trú, von og þolinmæði, réttlætis skrúða skartið þitt, skíni á sálu miñi, þó líf hér liñi, eins láttú holdið eiñiñ mitt, afklæðast þrjótsku sinni.

12. Forlíkast gjörðu fjandmeñ tveir, þá förstú þar, Jesú! milli; eg veit mér gafstú miklu meir,

miskun og fridar-stilli, hjá Gudi Fødur, svo — til sañs — sjest engin reidi lengur, né stygdar-strengur, daglega milli mín og hans, minn trúr Frélsari gengur.

13. Hvar sem ófridur hreyfir sér, af holdsins ve[k]leik' brádum, milli kristiña maña hér, móti Guds-vilja' og rádum, gácktú þar, Jesú! milli mest, med þínum fridar anda, og varna vanda, hjálpa þú svo vér hugsum best, í hreinum kjærleik' ad standa!

## 22. Sálmur.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Frá Heróde þá Kristur kom, kallar Pílatus snjöllum róm, Gydínga lýd og ljós gaf rök, Lausnarinn hefdi enga sök, sampyckur væri'og sér til þess, sjálfur Kóngurinñ Heródes.

2. Sannlega Drottinn sakleysed, sjer, elskar bædi'og styrkir med, hjarta og muñur hvers eins maũs, hlýtur ad þjóna vilja hans; máleñnid gott fær gódañ róm, gjæt þess, mín sál! og vertú fróm.

3. Sidur Gydínga sá var þá, sokamañ eiñ þeir skyldu fá, um Páska-tímañ frá pínslum frí, Pílatus átti'ad gegna því; í frelsis miñníng'úr Egyptó; aldrei baud Drottiñ svoddan þó.

4. Sjá til, mín sál! ad sidvaniñ, sist megi villa huga þiñ, fordastú honum ad fylgja hér, framar eñ Guds ord leyfir þér; góð meiníng enga gjorir stod, gylda skal meira Drottins bod.

5. Pílatus Júdum sagdi svo: sjáid nú glöggt um kosti tvo, eg býd hér Jesúm ydur fram, eda mordíngjann Barabbam.

Hann meintl' ad yrdi helzt med því, Herrann
frá dauda géfinn frí.

6. Þú fær nú gloggt af þessu sjed, þar, sem
Drottinn er ecki med, í verki', áformi'og vilja manns,
verda til einkis rádin hans; skrvitska holdsins
svikul er, svo sem Pílatum skédi hér.

7. Yfir-mennirnir allra fyrst, ósk udu' ad
Drottinn krossfestist, almúgann svo í annann stad,
eggjudu mest ad bidja um þad: Barabbas
útlausn skyldi ské, skilinn Jesús frá lífi sé.

8. Veraldar dæmin varast skalt, vega þú
ecki'ad gjora þad allt, sem Hofdíngiarnir hafast
ad, þó heimurinn kalli loflegt þad; ef blindur leid-
ir blindann hér, bádum þeim hætt vid falli er.

9. Hverr þig eggjar á íllverk brád, aldrei
gack þú med þeim í rád, vinn þú þad ei fyrir
metord manns, ad missa Guds nád og vinskap
hans; hverigur annars bætir bol, þá bádir rata'
í straff og qvol.

10 Yfir-mennunum er því vandt, undirsát-
ernir hnýsa grant, eptir því, sem fyrir augun
ber, audnæmest þó hid vonda er; hvad Hofd-
íngiarnir hafast ad, hinir ætla sér leyfist þad.

11. Ill eptirdæmi' á alla grein, eru samlíkt
vid mylnustein, viljir þú ver' af fári frjáls, festu
hann aldrei þér vid háls, í Guds ótta frá þér
glæpum hrind, gód vertú ödrum fyrirmind.

12. Húsfrú Pílatí holl gaf rád, hefdi hann
betur ad því gád; gódar qvinnur þess gæti mest,
gjarnan ástundi dæmin best. Abígael fær æru'
og sæmd, ílla Jssabel verdur ræmd.

13. Set eg þad nú í sinni mér, sæti Jesú! ad ajæt'ad þér: allir hrópudu allt um kríng, yfir þig dauda'og krossfestíng sem lamb meinlausast þagdir þú, þar af stendur mér hvagan trú.

14. Logmálsins bølvan bitur og sterk, banvænn djøfull og øll mín verk, þó hrópa vilji nú hvert fyrir sig, heimd og fordæmíng yfir mig, nýt eg, minn Jesú! þín því, frá þeirra kløgun verd eg frí.

15. Afellis dómsins ógna hróp, ytstu myrkranna vein og óp, aldrei mun kom'ad eyrum mín, eyrun blessud fyrst heyrdu þín, kall og hárevsti kríngum sig, frá quøl og ángist þad frelsar mig.

16. Hrópar nú yfir mér himin og jørd helgun, frid, nád og sáttargjørd, hvert heldur eg geng út eda inn, í þínu nafni, Jesú minn! bænarhróp mitt í hreinni trú, himneskum Gudi þócknast nú.

17. En þér til heidurs alla tíd, Englar Drottins og kristinn fríd, hrópar nú bædi'á himni'og jørd: Hósanna, lof og þackargjørd! Amen ségir og uppá þad, ønd mín gladvær í hverjum stad!

## 23. Sálmur.

Lagid: Oss lát þinn Anda styrkja.

Pílatus Herrann hærsta, húdstrýkja lætur þar. Nakinn vid stólpann stærsta, strengdur þá Jesús var, strídsmenn med svipum hrecktu hann; sál mín! hér sjá og skoda, hvad Sonur Guds fyrir þig vann.

2. Helgasta holdid fríða, frá hvirfli iljum að, Drottni vard sárt ad svíða, svall allt af benjum. Það, hverr hans líkhama limur og æð, af sárum sundur-flakti, sú hyrtíng mjög var skjæð.

3. Blessadur dreyrinn dundi, Drottins lífsæðum úr, sem regn það hradast hrundi, himins í dymu skúr, blánadi hold eñ bólgnadi und, Sonur Guðs sárt var qvaliñ, saklaus á þeirri stund.

4. Eg var, sem fjötrum færdur, fángelsi þúngu í, á önd og samvitsku særdur, syndin mín olli því, sú daudleg sálar sóttin hér, um hverja æd út sér dreifdi, ekkert fannst heilt á mér.

5. Svipan lögmálsins lamdi, líf og sál heldur frekt, óttinn qvalanna kramdi, kominn var eg í sekt, banvænlegt ordið mitt var mein, hjartad af hrigdum stundi, hvergi fékkst lækníng nein.

6 Sástú þá, Jesú sæli! sár mín óbærilig, til lausnar þínum þræli, því létstú binda þig, géckst svo undir þá grimdar qvöl, ad eg qvittadur yrdi, vid eilíft hrigdar böl.

7. Sjúkdóm miñ sjálfur barstú, svo vard eg heill med því, hormúngum hladinn varstú, frá hrigdum er eg nú frí, hegníng þá féckst svo hefd' eg frid, benjar þínar mér bættu, bót sú þar átti vid.

8. Hjartad vill hrædslan krenkja, med hördum sorgar stíng, þegar eg gjöri' ad þenkja, um þína húdstrýkíng, aví! eg gaf þar eini til, þú eiñ galdst þrjótsku minnar, þess nú eg ydrast vil.

9. Því fell eg nú til fóta, Frelsariñ Jesú! þér, láttú mig nafns þíns njóta, náð og vægd sýn þú mér,

mér, eg skal með hlýðni heiðra þig, nú og um eilífð alla, þá huggar þú, Herra! mig.

10. Gleðstú, mín sál! þig græddi, Guðs Sonar heilagt blóð, þó synd og sorgin mæddi, sjá! hér er lækníng góð, náð fyrir reiði nú er vís, blot þrælsins Herrañ bætti, bar því síns Foðurs hrís.

11. Skoða þú skyldu þína, skírlega sál mín! nú: Sonuriñ sig lét pína, svo læknuð yrdir þú; heilbrygð þjóna þú honum rétt, með trú, hollustu' og hlýðni, haf gat á þinni stétt.

12. Þóknist honum að þjaka, þitt hold ornkumslum með, þýðlega því skalt taka, þolin-nóðt hjarta-géð, ásjer Drottinn og elskar best; Lausnar' að líkjast þiñum, lof er þer aura mest.

13. Eckert má sóma síður: sí-kátur þrællinn er, þá Herrañ harmqvæli líður, haf slíkt í miñi þér; brigðar-mind hans er heiður þinn. Lát mig það læra' og halda, ljúfasti Jesú minn!

## 24. Sálmur.

Lagið: Til þin, heilagi Herra Guð!

Allvirkjar Jesúm eptir það, iñ í þínghúsið leiddu, afklæddu fyrst og fljótt þángað, fólkið allt koma beiddu, purpura klæðis forna flýk — fást mátti varla hádúng slík — yfir hans benjar breiddu.

2. Helgunar-klæðið hafði'eg mist, hlaut því nakiñ að standa, Adam olli því allra fyrst; arf lét mér þañ til handa, syndaña slýk eg færdist í, forsmán og mínkan hlaust af því, með hverskyns háska' og vanda.

3. Burt-tók Jesús þá blygdun hér, berann því lét sig pína, réttlætis klædnad keypti mér, kann sá fagurt ad skína; athvarf mitt jafnan er — til sanns — undir purpura-kápu hans, þar hyl eg misgjörd mína.

4. Þyrni-kórónu þúngri þeir, þreyngdu ad Herrans enni. Báleldi heitum brendu meir, broddar svídand' í henni, augun hans bædi og anslit med, allt af blódinu fyllast réd, slíkt trú' eg qvala kénni.

5. Fyrir óhlýdni Adams var, oll jördin lýst í banni, ávoxt því slíkan af sér bar, ord Guds trú'eg þad sanni; þessum bölvunar þyrni-krans, þreyngt var ad hofdi Lausnarans, til huggunar hrelldum manni.

6. En Jesú hlýdni aptur hér, allri jörd blessun færir, heilnæmann ávöxt hún því ber, hverja skepnu vel nærir; fyrir gædskunar gjörníng þann, gösgi, lofi og prísi hann, hvad sig um heiminn hrærir.

7. Bölvan mér yfir hofdi héck, hótud í logmáls brædi; en Jesús hana undir-géck, svo aptur eg blessun nædi; Gud minn Kórónu gaf mér þar, gædsku og dýrdar eilífrar, hér og á himnum bædi.

8. Reyr staf honum í hönd med spé, Hirdstjórans þrælar fengu, heilsudu Kóngi' og krupu' á kné, kals-ord á víxl þá gengu, reyrnum hröcktu um hofud hans, hræktu í andlit Lausnarans, med qvala kappi straungu.

9. Þá þú gengur í Guds hús inn, gæt þess vel, sál mín fróma! hæd þú þar ecki Herra þinn, med hegdun líkhamans tóma, beygdú holdsins og

hjartans kné, heit bæn þín ástar-qvedja sé, hræsn-in mun síst þér sóma.

10. Sjál's míns verð skuldun sje eg hér, svoddan átti'eg ad líða, um eilífð þá, sem aldrej þver, með ógn og sárum qvíða, hefði mér ecki hörmúng þín, hjálpad, Jesú! frá þeirri pín. Blessad sé nafn þitt blíða!

11. Öll þín læging er upphefð mín, ástkjæri Jesú mildi! heidur er mér ad háðúng þín, hverr sem mér níðra vildi, höggin, sem leiðstú, hressa mig, á himnum verð eg nú fyrir þig, metinn í mesta gyldi.

12. Meðan líss-æð er í mér heit, eg skal þig, Drottinn! prísa, af hjartans grunn' í hverjum reit, heidur þíns nafns auglýsa, feginn vil eg í heimi hér, hlýða og fylgja' í öllu þér; lát mér þína lidsemd vísa!

## 25. Sálmur.

Lagid: Konúng David, sem kénndi.

Landsdómarinn þá leiddi, Laustnarann út með sér, Gydíngum andsvör greiddi, glögglega og svo tjer: þér sjáið þennan hér! sannlega ydur eg segi: sök finnst með honum eigi, sú dauda-dóms verð er.

2. Þá géck Jesús út þaðan, þyrnk'og purpura bar, sagdi: sjáið hér manninn! sjálfur Dómarinn þar. Gydíngar gáfu svar: burt með hann! — svo þeir segja — sá skal á krossi deya. Ósk þeirra ein sú var.

3. Ord og aſſakan gyldti, engin í þeſſum ſtad; heiptin ſvo huganñ fyllti, hjartad vard forblindad, ſídarſt þeir ſögdu þad: ljóslega lífsſtraffs krefdi, lögmálid, því hann hefdi, gjört ſig Guds Syni ad.

4. Rétt ſog, ſem ritud finnaſt, rángfærdu Júdar hér, oſs ber þar á ad minñaſt, íll dæmi fordumſt vér, dómurinn Drottins er, hinn þó med heiptum klagi, og hreinann ſannleik aflagi; ſjái Valdsmenn ad ſér.

5. Þá eg heyri, minn Herra! hverſu þú qvalinn varſt, gjörvöll vill gledin þverra, galdſtú mín nærſta hardt, því eg braut mikid og margt:-en þá mér Gudſpjöll greina, glöggt þitt ſakleyſi hreina, hjartad fær huggun ſnart.

6. Athuga, ſál mín! ættum, útgaungu Drottins hér, ſvo vid rétt minnaſt mættum, hvad miſkun hans veitti þér; hyggjum ad, hann útber, Þyrni-kórónu þétta, þar med Purpurann létta, blár og blódugur er.

7. Med blód-ſkuld og bölvun ſtrángu, breiſkum reyrd qvala hnút, áttum vid greidt ad gánga, frá Guds nád rekin út, hrakin í heljar ſút, íklædd forſmánar flíkum, fráſkúfud Drottni ríkum, nakin og nidurlút.

8. O ſynd! o ſyndin arga! hvad íllt kémur af þér? o! hverſu meinſemd marga, má Drottiñ lída hér? þitt gjald allt þetta er, blindad hold þig ei þeckti, þegar þín flærd mig bleckti. Jeſús miſkuni mér!

9. En med því út var leiddur, alfærdur Lausnarinn, gjordist mér vegur greiddur, í Guds nádar-ríki inn, og eilíst líf annad sinn, blódskuld og bölvun mína, burttók Guds Sonar pína; dýrd sé þér, Drottinn minn!

10. Utgeng eg ætíd sídan, í trausti Frelsarans, undir blæ himins blídann, blessadur víst — til sanns — nú fyrir nafnid hans, útborid lík mitt lidid, leggst og hvílist í fridi, sál fer til sælu-ranns.

11. Dýrdar Kórónu dýra, Drottinn gefur mér þá, réttlætis skrúdann skíra, skal eg og einnig fá, uppríssu-deginum á, hærstum heidri tilreiddur, af heilögum Englum leiddur, í sælu þeim sjálfum hjá.

12. Svo munu Guds Englar segja: sjáid nú þennann mann! hvern allkyns eymd réd beygja, ádur í heimsins rann, opt var þá hrelldur hann, fyrir blód Lambsins blída, búinn er nú ad strída, og sælann sigur vann.

13. Þá muntú, sál mín! svara, syngjandi fögrum tón: lof sé mínum Lausnara! lamb Guds á hærsta trón, sigur gaf sínum þjón, um blessadar himna hallir, honum segjum vér allir, heidur, med sætum són!

14 Son Guds ertú med sañi, Sonur Guds, Jesú minn! Son Guds, syndugum mañi, Sonar-arf skenktir þinn, Son Guds einn eingétinn; Syni Guds syngi gladur, sérhverr lifandi madur, heidur í hvert eitt sinn!

## 26. Sálmur.

Lagid: Hærsti Gud Herra mildi.

Hér þá um Guds Son heyrdi, heidinn Landsdómare, hañ spyr — því hrædast gjördi — hvadan vor Drottiñ sé? en Jesús þýdur þagdi — þad og vel maklegt var — Pílatus brádt ad bragdi, bistist og aptur sagdi: vilt þú ej veita svar?

2. Míner, þad máttú játa, maktin svo tignarlig, eg má vel lausann láta, lika krossfesta þig. Jesús svarar og segir: sist átt þú vald á mér, ef þér væri þad eigi, ad ofan gefid, svo megir, heidri þeim halda hér.

3. Sá hefir synd enn meiri, er seldi míg þér á hønd. Pílatus hygg eg þad heyri, hann grundar málin vønd. Gjørdi strax grida leita, gáfu Prestarnir ans: vægd ef þessum vilt veita, víst mátt þú ecki heita, kjær vinur Keisarans.

4. Heidíngjar halda gjordu, hjá-gudir þeirra senn, born ættu alin á jordu, eins og holdlegir menn; hann óttast hér ef væri, Herrann Godanna kyns, hvadi því helzt ad bæri, hyggilega framfæri, ransókn réttdæmisins.

5. Skurdgod sín heidnir héldu, hafand'í mestu akt, forgéfins hug sinn hrelldu, hræddir vid þeirra makt; o! hversu framar ætti, einn sérhverr kristinn mann, óttast Drottins almætti, med ást og blygdunar hætti, sem stoltum steypa kann.

6. Af stórri makt sig réd stæra, stoltur Pílatus hér, rétt mál til rángs ad færa, reiknadi leyfilegt

sér; kañ vera margañ megi, meiníng sú villa þrátt, þó løgin brjóti' og beygi, bannad sé þeim þad eigi, fyrst vald þeir hafa hátt.

7. Gud er sá voldin géfur, gæti þess ædri stétt, sitt ljeni hverr einn hefir, hér af Drottni tilsett, hann lét þig heidur hljóta, heidrast því af þér vill, vyrdíngar vel mátt njóta, en varast drambsemi ljóta, róg og ránaindin íll.

8. Yfirvald eiñ Gud sendi, undirmenn ætti þar ad, sverd Drottins hefir í hendi, heidra skulum vér þad, hlýdugir fridi halda, hlífd og forsvari ná, hverlyndis þrjótskan kalda, þúnglegri hefndar gjalda, ad vísu sér vænta má.

9. Eins sem hverr einn misbrýtur, eptir því straffast hann, hardari hefndir hlýtur, hinn sá meira tilvann; þeim mun ei plágan þverra, sem þrjótskast í synda-rót, sá þjón á von hins verra, sem vilja þeckir síns Herra, þó gjørir þvert á mót.

10 Vardveiti Valdsmenn alla, vor Gud! í siñi stétt, svo varist í vondsku' ad falla, vel stundi løg og rétt; hinir í hlýdni standi, hverr svo, sem skyldugt er, hrein trú og helgur vandi, haldist í voru landi, Amen, þess óskum vér!

## 27. Sálmur.

Lagid: Skaparinn stjarna Herra hreiñ.

Pílatus heyrdi hótad var, honum Keisarans reidi þar, útleiddi Jesúm annad siñ, uppsetst þegar á Dómstólinn.

2. Gydíngum síðan sagði hér: sjáið, það ydar Kóngur er. Þeir báðu: tak þennann burt frá oss, brádlega lát hann deyja á krosß.

3. Skal eg krossfesta Kóng ydvarn? kall-ar Pílatus hæðnis-gjarn; engann Kóng seg-ja þeir aptur hér, utan Keisaranû höfum vér.

4. Guðspjalls historían hermir frá, heiti sá staður Gabbatha, hvà steinstræti þýðir það; þar máttú, sál mín! gæta að.

5. Vei þeim Dómara'er veit og sjer, vísst hvað um málið réttast er, vinnur það þó fyrir vinskap manns, að víkja af götu sannleikans.

6. Pílatus Keisarans hræddist heipt, ef hon-um yrði úr völdum steypt; þetta, sem helzt nú varast vann, varð þó að koma yfir hann.

7. O! vei þeim, sem að órétt lög, umgáng-ast og þau ríeka mjög, sannleiknum meta sitt gagn meir, svívyrðing Drottni gjöra þeir.

8. Huga sný eg og máli mín, minn góði Je-sú! enn til þín; Pílatus Kóng þig kallar hér, krossfesting Júdar óska þér.

9. Víst ertú, Jesú! Kóngur klár, Kóngur dýrdar um eilíf ár, Kóngur Englanna, Kóng-ur vor, Kóngur almættis tignar stór.

10. Þó stóðstú bundinn þar fyrir dóm, þó leiðstú hróp og qvala róm, afsegja gjörðu allir þig, undrar stórlega þetta mig.

11. O Jesú! það er játníng mín: jeg mun' um síðir njóta þín, þegar þú, dýrdar Drottinn minn! Dómstól í skýum setur þinn.

12. Frels⸗

12. Frelsadur kém eg þá fyrir Þíñ dóm, fagnadarsælann heyri eg róm, í þínu nafni útvalder, útvalinn kalla mig hjá sér.

13. Kóng minn, Jesú! eg kalla þig, kalla þú Þræl þinn aptur mig, Herra tign enga ad heimsins sid, held eg þar mega jafnast vid.

14. Háa stein-strætid heimsins sleipt, hefir mér opt í vanda steypt, þángad lét Jesús leida sig, svo líknin hans komi yfir mig.

15. Jesú! þín kristni kýs þig nú, Kóngur hennar einn heitir þú, stjórn þín henni svo haldi vid, ad himneskum nái dýrdar frid.

## 28. Sálmur.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

Pílatus sá ad sönnu þar, sín rád mättu ej gylda par, upphlaup sér búid hræddist hañ, hugdi ad stilla vanda þañ, fullnægja vildi fólksins bón, sá skyldi Jesús lífsins tjón, sannleika engum sinti meir, svo dæmdi allt, sem beiddu þeir.

2. Hendur í vatni þá nam þvo, því nærst vid Júda mælti svo: sjálfir um ydur sjáid þér, saklaus vid Réttláts blód eg er., Allur almúgiñ uppá þad, andsvarar greidt í þess um stad: hans blód — þó nú hann qvelji kross — komi yfir börnin vor og oss!

3. Pílatus hafdi prófad þar, pínslar-sök Drottins engin var, fyrir og eptir eins réd hañ, úrskurda Jesúm saklausann; þó mót samvitsku

siñi hvert, sjálfur viljandi dæmdi hert. Gud géfi' ad Yfirvöldin vor, varist þau dæmi glæpa stór!

4. Hvad margur nú í heiminum, hér fyrir lastar Pílatum, sem þó elskar og ydkar mest, athæfi hans og dæmin verst? óttiñ í dómi opt fær sess. Yfir-herrarnir njóta þess; almúgans hres-un olli því, illgjarnir skálkar hlaupa frí.

5. Abata-von og vina-hót, verkin dylja þó s'u ljót, líka kémur sú fordyld fram, sem forsvarad gétur Barabbam. Géfist þá raunin hvad gylda skal, gull-túnga sú, er Achan stal, máské og þyggi mútur hiñ, meir' eñ Pílatus þetta siñ.

6. Eg spyr: hvad veldur ódygd flest, eykst nær daglega'og fjöldgar mest? umsjónarleysi'er ovíst hærst, einn gaansmunir þessu nærst, miskuñ. seiñ heitir skálka-skjól, skygnist eptir um fánýtt hól, óttiñ login svo þvíngar þrátt, þora þau eckí'ad líta hátt.

7. Fyrir sökinni þegar þar, þvodi Pílatus hendurnar, fyri Gudi sér þañ ajördi grun, gylda mundi sú afsökun; varastú, madur! heimsku hans, hér þó þú villir sjónir mañs, almáttugs Drottins augsýn skjær, allt þitt hjarta rannsakad fær.

8. Viltú þig þvo, þá þvodú hreint, þel hjartans bædi ljóst og leynt; ein laug er þar til edla gód, ydrunar tár og Jesú blód; grát þína synd, en set þitt traust, á Sonar Guds pínu efalaust, lát af illu, en ydka gott, allann varastú hræsnis þvott.

9. Blóds-hefnd á sig og born sín med, blindadur lýdur hrépa réd ebldist svo þess ósk'n'kold, eñ í dag bera þeir heñar gjold. Athugagjarn og

ördvar sért, einkum þegar þá reidur ert, formælíng íllañ fiñur stád, fást mega dœmin uppá bad.

10. Drottiñ Jesú! sem dœmtur vart, Dómari kémur þú aptur snart, Dóms ⸗ meñ láttú til dýrdar þér, Dómana vanda rétt, sem ber; þvo þú vor hjörtu'og hendur med, hrein trú vardveiti rósamt géd; þitt blód flecklaust sem flódi'á kross, frelsi þad bernin vor, og oss!

## 29. Sálmur.

Lagid: Eins og sitt barn.

Seldi Pílatus saklausañ Son Guds til krossins dauda, upphlaups madur sá víg eitt vann, þá frelsi fann, feck líf, en misti nauda.

2. J myrkvastofu sá bundiñ beid, Barabbas trú'eg hafi heiti. Má hér finnast ein merkíng greid, um mannkyns neyd, mjög skír ad öllu leiti.

3. Barabbas frá eg Fodurs Níd, flestir lærdir meñ þýdi; Adam líkist þar eflaust vid, og allt hans lid, sem áfell daudans qvídi

4. Upphlaups-madur hañ ordiñ var, þá eplid í muñ sér leiddi, sjálfs Guds bodordi siñt'ej par, og sídan þar, sig og allt mannkyn deyddi.

5. J Djöfuls fjötrum fastur lá, fángiñ til eilífs dauda, allir hans nidjar útífrá, med eymd og þrá, áttu von qvala' og nauda.

6. Hér þá Jesú var heim kaldt, of heidnu dœmt Yfirvaldi, feck Adam aptur frelsid injalt, og jöfs hans allt, sem fagnar því lausnar⸗gjaldi.

7. Nú fyrst eg Adams nidji er, nær mér gengur þad dœmi; sál mín! set slíkt fyri sjónir þér, og sjádú hér, sañferdugt lærdóms næmi.

8. O! hvad opt hef'eg aumur gjert, uppreist mót Drottins Anda! daglega því hans bodord bert, svo braut eg þvert, mér bar þó í hlýdni ad standa.

9. Mun og ecki vid manndráp frí, mína sál þrátt eg deyddi, íll dœmin gáfust af mér ný, og naudir í, náúngann þar med leiddi.

10. Ofrægur er eg ordiñ mest, allar sképnur þad saña, fárádum eckert forsvar sjest, fángelsid verst, fyrir því hlýt eg kaña.

11. Í myrkvastofu'eg bundiñ bíd, bölvan lögmáls mig hrædir, dapurt nálægist daudans stríd, og dómsins tíd, daglega sorgin mædir.

12. Heyri eg nú þañ hiálpar-róm: ad hafir þú, Jesú mildi! fyrir mig lidid lífláts dóm, þín líknin fróm, lausann mig kaupa vildi.

13. Sú heilaga'aflausn hrigd og sút, af hjarta mínu greidir, syndaña leysir hleckja-hnút, og hér nærst út, úr hordu fángelsi leidir.

14. Hvad dauda saknæmt sást á mér — svoddan eg miskun þecki — til dauda allt var dæmt á þér, miñ Drottiñ! hér, dóminum qvíd'eg ecki.

15. Líf mitt og sál þig lofar nú, leyst frá daudans fángelsi, eň lifi'eda dey, þad er mín trú, óbrygdul sú, í þínu, Jesú! frelsi.

16. Himneskri Páska hátíd á, hef'eg nú þess ad bída myrkvastofunni frelstur frá, eg fagna þá, í flocki' útvaldra lýda.

17. Svo er nú Barabbas ordiñ frí, Adam og eg hans nidji; hver kristin sála heimi í, vorn Herra því, heidri, lofi, tilbidji!

## 30. Sálmur.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Strídsmeñ Krist úr kápu færdu, og klæddu' hañ sínum búníng' í, sollnar undir sárt vid hrærdu, þær svidu' og blæddu uppá ný, á blessudu sínu baki særdu, hann bar sinn kross og mæddist því.

2. Skédi svo á samri stundu, Símon nockurn bar þar ad, framandi mañ, er géck um grundu, gripu Júdar þañ í stad, krossinum á hans herdar hrundu, hann géck naudugur undir þad.

3. Þeir, sem, sál mín! syndir drýgja, samvitskunni þvert á mót, undir Drottins endurnýa, ef ecki gjøra'á lestum bót; vid skulum frá þeim flocki flýa, og fyrirgéfníngar bidj'af rót.

4. Uppá heimsins ófacklæti, er hér dæmi ljóst til sanns: margañ læknadi Son Guds sæti, sjúkañ medal almúgans, nú var ei neinn, sem bolid bæti, og bæri med honum krossinn hans.

5. Símon bædi' og syni hans báda, sjálf hér nefnir historían, gudhræddur skal njóta náda, og nidjar margir eptir hann, miskunsemd vid menn fáráda, minnast Gud og launa kann.

6. Framandi madur mætti Kristi, med honum bar hans þúnga kross. Hér má fiña, hvern

það lystir, hreina þýðíng uppá oss, Guðínaa fólk þá Guðs náð misti, gafst heiðíngjum dýrðar hnoss.

7. Synda undir hrust mínar, opt a hverri stundu nær, samvitskunnar sorg ei dvínar, svida meinið illa grær, blessaðar, Jesú! benjar þínar, bið eg mýki og lækni þær.

8. Þess krossins þúnga byrði, þér var, Drottinn! lögð á bak, svo syrmindan fylld sú yrði, þá fórnar-viðinn bar Isaak, sá kinn gánguriñ sorgar stirði, af sálu minni tók ómak.

9 Minnist eg á kjáníng þína, þig sú mæddi byrðin strið, sannleaa fyrir sálu mína, svoddan leið þín gætskan blíð, vegna þess mér yrðstu'að sýna, verkunsemi nær eg líð.

10. Hold er tregt minn Herra mildi! í hörmúngunum að fylgja þér, þó eg feginn feta vildi, fótspor þ'n, sem skyldugt er, vilji minn er í veiku gyldi, þú verdur því að hjálpa mér.

11. Elsku-géð svo þitt eg þekki, þjáðum viltú sýna lið; láttú mig, Drottinn! einann ecki, í ánauð minni, þess eg bið; nafnið mitt, þó nauðir hrecki, náð þín blessuð kanníst við.

12. Komir þú undir krossins strάnga, kristin sála! gæt þess hér, þá holdið tekur að mögla'og ménga, mũstú hver þín skylda er, láttú, sem þú sjáir gánga, sjálfann Jesúm undan þér.

13. Undir krossi illvyrkjaña, aldrei hér þig siña lát, varastú glæpi vondra maña, á verkum þínum haf þú gát, ydka bæn og ydrun sanna, elska gj..rnan hóf og mát.

14. Haf

14. Haf þú, Jesú! mig í minni, mædu'og daudans hrellíng stytt; bein mín hjá þér forsjón finni, frá þe m øllum vanda hritt, látú standa' á líss-bók þinni, líka þeirra nafn, sem mitt!

## 31. Sálmur.

Lagid: Sá frjáls vid løgmál fæddur er.

Fólkid, sem Drottni fylgdi út, fylltist margt ángri hørdu, qvinnurnar grétu sárt med sút, sem hans qvøl' aumka gjørdu.

2. Snéri til þeirra Son Guds sér, sagdi þá Herrann mætur: grátid þér ecki yfir mér, o Jerúsalems dætur!

3. Sonu ydar og egin eymd, eflaust þér gráta megid, nálgast sú tíd, sem nú er geymd, nær þér harmandi segid:

4. Sæl nú óbyrjan barnlaus er, og brjóst þau ei sogin vóru, hrynji yfir oss hálsarner, hædir og fjøllin stóru!

5. Ef gjørt er svo vid þad græna tré, (géta hverr til þess nædi), hvad bíd þornada þá mun ské? þad trú'eg Jesús rædi.

6. O! hvad veraldar vyrdíng er, volt og svikul ad reyna, gæt þess, mín sál! og sjádú hér, sannprófad dæmid eina:

7. A Pálma-sunnudag sjálfur inn, Son Guds í borg nam rída, ástvinir hans þad sama sinn, súngu lof án alls qvída.

8. Fám døgum sídar sjálfur út, færdur med kross nam gánga, þad hlutu' hans vinir ad sjá med sút, sorg hjartans báru stránga.

9. Hafi svo verid volt og slá, veröldin Herrá sínum, hvers má sér vænta þrællinn þá? þess gæt í huga þínum.

10. Þeim, sem hún býdur blídleik sin, búin er sorgin mesta; hyrdtú því aldrei huga þinn, vid hana, mín sál! ad festa.

11. Saññlega skyldugt segi' eg mér, sára þá gvöl ad gráta, sem, Drottinn Jesú! þúngt ad þér, þrehngdi í allann máta.

12. Samt er þér ecki þént med því, þótt eg þig aumka vildi, eilífa hátign ertú í, upphafin, Jesú mildi!

13. Þar má nú heldur aukast af, ángur samvitsku minnar, orsök eg til og efni gaf, allrar hörmúngar þinnar.

14. Erfidi hef' eg aukid þér, ofþúngt med syndum mínum, glæpanna, sem eg gjordi hér, galdstú á holdi þínu.

15. Hrædist eg mér sé hulin geymd, sú hefndar pínan stránga, því eg vann til ad eilíf eymd, yfir mig skyldi gánga.

16. En þó gled eg mig aptur vid, ávöxtinn qvala þinna, þar af ödlast eg frelsi, frid, og forlát synda minna.

17. Angistin sár og sorgar-lát, er sál' helzt þjádu mína, snýst í fögnud og fegin-grát, fyrir þá miskun þína.

18. Bid eg nú, Jesú blídi! þig, sem bót mér gjordir vinna: lát engann gjalda eptir mig, illsku né synda minna.

32. Sálm-

## 32. Sálmur.

Lagid: Nú kom heidinna hjálpar-ráð.

Greinir Jesús um græna tréð, gétur hins visna eiñiñ med. Vid skulum, sál mín! skoda' á ný, skirann lærdóm á máli því.

2. Frjófgunar eikin voxnud væn, vel blómgud stód med laufin græn, þegar á jordu fást til sanns, Son Guds íklæddur holdi manns.

3. Lífsins ávexti ljúfa bar, læknadi Jesús sóttirnar, frá Djofli leysti' og daudans pín', daufum gaf heyrn en blindum sýn.

4. Af hverri grein draup húnáng sætt, hjálpræðis kénníng'féck hañ rædt, oll hans umgéngni ástúdleg, ángrádar sálir gladdi mjog.

5. Gudi var þeckt hid græna tréd, glodduft himnar og jordin med; í hans fædíng þad vitnast vañ, og vid Jórdan þá skírdist hann.

6. Réttlætis allann ávoxt bar, inn til krossdauda hlýdinn var, saklausa lambid Son Guds einn, af synd og lýtum klár og hreinn.

7. Þó mátti ej þad edla tré, ángurlaust vera' á jorduñe, Guds reidi-stormur geysa vañ, géck því reisíngin yfir hann.

8. Ef þú spyr ad: hvad valda vann, vildi Gud láta saklausann, Soninn komast í forgir þær, sem honum vár þó hjarta-kjær?

9. Þú skalt vita: ad visnad tré, var mañkyn allt á jorduñe, ofan ad rótum uppþornad, ávoxt rángletis færdi þad.

10. Skaðsemdar-trjeð, sem skémmdi jorð, skipaði Drottins reiði horð, upphöggva, svo það ecki þar, akrinum sé til spillíngar.

11. Vor Jesús monnum vægðar bað, vinn-ast mátti' ej að fengist það, utan hann tæki uppá sig, íllverka gjoldin hriggilig.

12. Herrann íklæddist holdi þá, híngað kom til vor jorðu á, visnaðri eik gafst vokvan góð, þá varð úthellt hans dýra blóð.

13. Saklaus því leið hann sorg og háð, synd-ugt mannkyn svo fengi náð, hið græna tréð var hrakið og hrist, hér af það visna blómgaðist.

14. Guðs dýrðar-sæti sitt hold í, Sonurinn mátti'ei hefja því, fyrr'enn í heimi harða neyð, hafði þolað og krossins deyð.

15. O! hvað manns hold er heimsku fyllt, hriggilega úr máta villt, viljand' í lostum liggur það, leikur sér allskyns glæpum að.

16. Margir ætla: fyrst ecki strax, áfellur hefnd-in sama dags, Drottinn þá aldrej muni meir, minnast á það, sem gjorðu þeir.

17. Því góða tréuu kyrmt var sîst, þurrum kausk mun þá bálið víst; hafi Faðirinn hirt sinn Son, hefndar mun þrællinn ega von.

18. Ef nú Guðs mildin ástúdlig, óhegnda, sál mín! líður þig, hans þolinmæði haldtú hér, hjálpræðis meðal géfið þér.

19. Visnað tré eg að vísu er, vægdú, rétt-lætis Herrann! mér, gæðskunnar eikin græn og fín, geymdú mig undir skugga þ'n!

20. Von

20. Þen er ad mér sé métkost víst, mun eg umflýa daudann síst, holdid má ei fyrir utan kross, eignast á himnúm dýrdar-hnoss.

21. Tæpti eg mínum trúar-sjón, á tréd, sem drýpur hunáng af, sjén hjartans ollu ángri s, ur plýsist nær eg smack'af því.

22 Þegar mér gánga þrautir nær, þér snú þú til mín, Jesú kjær! hjartad hressi og huga minn, himneskur nádar-vokvi þinn.

## 33. Sálmur.

Lagid: Konúng David, sem kénndi.

Kom loks med krossins byrdi, Kristur í Hausastad — orþjádur frá'eg hañ yrdi — edik galli blandad, honum þeir héldu ad; Drottinn vor dýrdar mildi, drecka þó ecki vildi, þá hann smackadi þad.

2 Fals undir fogru máli, fordyldar hræsnin ber, vinátta temprud táli, og trúarlaus ydran hér, edik gall-blandad er, svoddan súr-dreggja víni — þó sjálft glislega skíni — Herrañ hrindir frá sér.

3. Þad tek eg víst til þacka, þá þú vilt, Drottiñ kjær! súrt med þér sjálfum smacka, sé þín miskunin skjær, í hverri neyd mér nær, gallbeiskju bolvuninnar, og bikar heiptarinnar, burt-tak þú frá mér kjær!

4. Nakinn Jesúm á jordu, Júdar krossfestu þar, med heiptar sinni hordu, hendur og fæturnar, teygt allt og togad var, géck svo járngaddur nístur, gégnum lófa og ristur, skinn og bein sundur-skar.

5. Tveggja mordíngja milli, miskunar Herrañ héck, spádóminn frá eg svo fylli, sem fyrr meir um þad géck, rædir svo Ritníng þeck: þjón miñ sá einn útvaliñ, er med spillvirkjum talinn, forsmán mjög þúnga féck.

6. Nú eg minnist á næsta, nakinn þá Adam stod, vid tréd med hormúng hærsta, hjarta-sorg, böl og mód, því verk hans vóru' ei góð; innvortis ángrid qvaldi, undir trjánum sig faldi; þess galdt oll heimsins þjód.

7. Nú aptur Jesús nakinn, negldur á trénu stód, píndur, húdstrýktur, hrakinn, hjartans bar sárann mód, þó vóru'oll verk hans gód; eiñ fyrir engum faldist, opinberlega qvaldist, þess naut oll heimsins þjód.

8. Horfi'eg á hondur þínar, Herra minn Jesú kjær! fyrir misgjordir mínar, meinin slík lidu þær, blód-dreyrinn dundi skjær, saurgun sálar og handa, sem mér komu í vanda, af hreint med ollu þvær.

9. Fús var eg fram ad halda, feril glæpaña hér, þess fætur þínir gjalda, þad vard til líknar mér; Drottiñ! eg þacka þér, fram á fridarins leidir, fótspor mín jafnan greidir, hédanaf hvar eg fer.

10. Gud gæfi! mitt hold mætti, med þér krossfestast nú, frá ollum íllsku hætti, ésk mín er dagleg sú, miñ Herra! þad veitstú, uppá þad ond mín kyñi, óhindrud gædsku þiñi, þjóna med þýdri trú.

11. Einn med' íllrædis-monnum, allir þig héldu þá, sem í heilagleik sonnum, sjálfur komst þínum frá, nú eg þess njóta má, af því eg er

útvalinn, med ødrum Guds børnum talinn, þar treysti'eg eflaust á.

12. Eg mun æ medan hjari, minnast á kross-inn þinn, heimsins ljúfi Lausnari! lífgar þad hugann minn, hvert eg geng út eda inn, af innstum ástar-grunni, ætíd med hjarta'og munni, segjandi hvert eitt sinn:

13. Jesú Kristí qvøl eina, á krossinum fyrir oss skén, sé mín sáttargjord hreina, og synda-qvittunen, af sjálfum Gudi sien, uppá þad ønd mín vonar, í nafni Födurs og Sonar, og heilags Anda', Amen!

## 34. Sálmur.

Lagid: Lifandi Gud! þú lít þar á.

Hegar qvalarar krossinn á, keyra vorn Herra gjørdu, flatur med trénu lagdur lá, Lausnar-inn nidur á jørdu, andlitid horfdi í þeim stad, og augun hans blessud himnum ad, hann stundi' af ángri hørdu.

2. Sinn fadm allt eins og barnid blídt, breiddi mót Födurnum kjæra, blódid dundi og tárin tídt, titradi holdid skjæra. Hér skoda, madur! huga þinn, hvad kunni meira nockurt sinn, Drottinn til hefndar hræra.

3. Óvinum fridar blídur bad, brunnur misk-unarinnar, hann vill þeir njóti einnin ad, ávaxt-ar pínu sinnar, sagdi: Fadir! þeim fyrigéf þú, forblindadir ej vita nú, sjálfir hvad vondt þeir vinna.

4. Lausnara þínum lærdú af, lunderni þitt ad stilla, hóværdar dæmi gott hann gaf, nær giöra menn þér til ílla, blót og formælíng vart ast vel, á vald Guds allar hefndir fel, heipt lát ei hug þinn villa.

5. Þótt þú vid adra saklaus sért, sannlega skalt þess gæta, samt fyrir Gudi sekur ert, já á þig frjálst ad græta; íllir meñ eru'í hendi hans, hirtíngar vendur syndugs manns, enginn kann þess ad þræta.

6. Óvinum ílls þó óskir hér, ei mínkar heiptin þeirra, óþolinmædi eykur þér, afrækir bod þíns Herra, þú styggir Gud med sooddann sid, samvitskan mjög þar sturlast vid, tjón þitt verdur því verra.

7. Upplýstú hug og hjarta mitt, Herra minn Jesú sæti! svo ad eg dygda-dæmid þitt, daglega stundad gæti; þeir, sem ófor þént ángra mig, óska eg helzt ad betri sig, svo hjá þér miskun mæti.

8. Heimsins og Djöfuls hreckja-vjel, holdid þrálega villa, þessvegna ecki þeck'eg vel, þó nú margt gjör'eg illa; beri svo til eg blindist hér, bid þú þá, Jesú! fyrir mér, þad mun hefnd harda stilla.

9. Eg má vel reikna auman mig, eiñ í flock'þeirra maña, sem í qvoliñi þjádu þig, þad vóru gjöld syndaña; en þú, sem bættir brot mín hér, bid þú og líka fyrir mér, svo fá'eg frelsun sanna.

10. Fyrst þú badst fridar fyri þá, er forsmán þér gjördu mesta, vissulega eg vita má, viltú mér allt hid besta; því eg er Guds barn og biódir þiñ, blessadi Jesú Herra miñ! náð kañ mig nú ej bresta.

11. Allra sídarst þá á eg þér, andláti mínu' ad ægna, sé þá, miñ Gud! fyrir sjónum þér, Sonar þíns pínan megna, þegar hañ lagdur láge á tré, leit til þín augum grátande, væg þú mér þá hans vegna.

## 35. Sálmur.

Lagid: Náttúran oll og edli manns.

Ueskrift Pílatus eina lét, yfir krossinum standa: Jesús nefndur af Nazareth, nýr Kóngur Gydínga-landa — Drottni med sañ. Dómariñ fañ, dauda-sok enga stærri — margur las þad, í þessum stad, þvi hañ var Borg svo nærri

2. Þad var ritad og þañiñ sett, í þrennslags túngumáli; valdemeñ Júda þad vissu rétt, vilja því Pílatus brjáli. Hann ansar greidt: ej skyldi neitt, umbreytt og framar tjádi: hvad skrifad er, skal standa hér; svo skédi' ad Drottins rádi

3. Þar nú á krossi Herrañ héck, hér ad, mín sála! gætum, vyrdíngar titil fagrañ féck, med forpris sakleysis mætum, ad hjálpar-fús, heitir Jesús, heimsins Lausnariñ gódi, hverr djofli frá, oss frelsa má, flecklaus med sínu blódi.

4. Nazarenus hañ nefnist þar, náttúru spillíng mañа, fráskiliñ eiñ ad vísu var, velþecka hlýdni sañа, sýndi hann hreint, ljóst bædi' og leynt, lifanda Gudi einum, hans tignar Son, trúr, forsjáll þjón, tryggur í ollum greinum.

5. Köngur Gydínga klár og hreinn, í krapti gudlegum drottnar, sá Davíds stól skal erfa einn, aldrei hans ríki þrotnar, Israels hrós, heidinna ljós, heitinn forfedrum lengi, svoddan titél, sómdi rétt vel, sál mín! þinn Herra fengi.

6. Svoddan yrdíngu vildu hann, vondir Gydíngar snevda, heiptar ofundin í þeim brann, af því Pílatum beida: ordtak þad brádt, á annan hátt, úrfæra settum máta; hann qvad vid nej, því þad vill ei, þeim Drottinn veitast láta.

7. Dramblátum setur Drottinn skamt, med djorfúng sína og hrecki, þeim lídst svo sem hann leyfir framt, lengra komast þeir ecki; allt skal mitt traust, efunarlaust, á hans makt jafnan standa, hvad munu mér, þá mennirner, mega i nockru granda?

8. Í þrennslags túngum var þetta skráð, því ad vor Herrann mildi, vildi sín elska, ást og náð, allri þjód birtast skyldi; hvert túngumál, med hug og sál, heidri þig, Jesú gódi! sem qvelin þín, og krossins pín, keypti frá synda mödi.

9. Géfdú ad módurmálid mitt, minn Drottinn! þess eg beidi, frá allri villu klárt og qvitt, krossins ord þitt útbreidi, um landid hér, til heidurs þér, helst mun þad blessun valda, medan þín náð, lætur vort láð, lýdi og bygdum halda.

10. Handskrift var ein yfir hofdi mér, hún mína sálu grætti, onnur stód, Jesú! yfir þér, sem ángur vors hjarta bætti. Jesú! þú ert, útvalinn bert, undir Kóngs-stjórnun þinni, ey[illegible]la og síd, um alla tíd, óhætt er sálu minni.

# 38. Sálmur.

Lagid: Hvar mundi vera hiartad mitt.

Strídsmenn þá höfdu krossfest Krist, klædnad hans tóku snart, skiptu í stadi fjóra fyrst, sá skyldi hverr sinn part, á kyrtil prjónadan — ljóst med list — lögdu þeir hlutfall djarst, fólsku-verk medan fullgjördist, fólkid á horfdi margt.

2. Ritníng sú eina uppfylld er — ádur var þar um skrád — skrúda mínum þeir skiptu sér — skírlega þad er tjád — hlutfallid yfir fat mitt ser, sæ eg þess einninn gád; set, madur! slíkt fyrir sjónir þér, sjá Drottins miklu nád.

3. Nú máttu skilja nakinn var, negldur Drottinn á kross, opinbert sáu allir þar, útrunninn dreyra foss; svoddan forsmán Guds Sonur bar, sannlega fyrir oss, hér géfst ollum án hylmíngar, himneskt miskunar hnoss.

4. Kalla eg merki klædin hans, kristnina í heimi hér, um fjórar áttir foldar-ranns, flockur sá dreifdi sér; líkkyrtill þessi Lausnarans, líknar ord blessad er, vilji því skipta skynsemd manns, skilníng sannleiksins hver.

5. Ej lét vor Drottinn audlegd há, eptir í þessum heim, klædin, sem hann bar holdi á, enn hverki gull né seim, þó mátti ei hans Módir fá, hid minnsta af ollum þeim, íllir menn hendi yfir þau slá; aldrei því dæmi gleym!

6. Sanna hóflega heimsins aud, huashýkin sturlar géd, þigg af Drottni þitt daglegt braud, dugga

lát þér þar með; holdið þá jörðin hylur rauð, hlotnast má ýmsum féð, svo þig ei ginni girndin snauð, gæt vel hvað hér er skéð.

7. Stríðsmaña heipt og harðýðge, Herrans qvöl gat ej mýkt, þó viti nóg hann særdur sé, siñið var ístkuríkt; þeir, sem fátækañ flrra fé, fólsku=verk drýgja slíkt; Guð láti þig ej glæp þañ ské, þú gjörir annað þvílíkt!

8. Nakinn á krossi heckstú hér, Herra minn Guð og mañ! fullnaðar borgun fengin er, fyrir mig syndugañ, þá fórn Drottiñ og sál mín sjer, sú gleðst, en blíðkast hañ, brúðkaups klæðnað tilbjóstú mér, þann besta'eg giñast kann.

9. Hentuglega féll hlutur sá, Herra miñ Jesú kjær! þó létst mig aumañ siña'og fá, fagnaðar orð þín skjær, þeim klæðafaldi þreifa'eg á, þegar mig hrigðin slær, straumar eymdaña stöðvast þá, styrk nýann hjartað fær.

10. Hér þó nú skipti heimuriñ, hlæandi auði sín, endast sá glaumur eitthvert siñ, þá æfin lífsins dvín; mér láttú hlotnast Herra miñ! hlutfall nærst krossi þín, svo dýrðar fegursti dreyri þiñ, drjúpi á sálu mín!

## 37. Sálmur.

Lagið: Hverr, sem að reisir hæga bygð.

Uppreistum krossi Herrans hjá, hans móðir standa náði, sverðið, sem fyrr réð Símon spá, sál og líf heñar þjáði, Jóhañes einig Jesú kjær, jafnt var þar líka staddur nær, gloggt sá að öllu gáði.

2. Siñi Módur hañ segia red: Son þiñ líttú þar, qviña! vid Læriſveiniñ líka med, Lauſnariñ blídt nam iña: ſiá þú og Módur þína þar! þadan í frá — ſem ſkyldugt var — ſá tók hana til ſinna.

3. Sá, ſem hjónannar ſetti bod, ſinni bleſsun red heita, þeim ed foreldrum ſtyrk og ſtod, ſtunda med elſku'ad veita; ſvoddan dygdanna dæmid hér, Drottinn vor ſjálfur gaf af ſér, bornunum eptir ad breyta.

4. Girniſt þú, barn mitt! bleſſun fá, bjorg líſs og æſu ſína, foreldrum ſkaltú þínum þá, þócknun og hlýdni ſýna; úngdóms þverlyndid optaſtnær, ólucku'og ſlis ad launum fær, hreckvíſa hefndir pína.

5. Eckjurnar ſiña einig hér, ágjætis huggun blída; Jeſús allt þeirra ángur ſier, umſjón þeim veitir fr'da, ef þær med hreinum huga' og ſid, halda ſig Drottins pínu vid, og hans hjálprædis bída.

6. María Drottins módir kjær, merkir Guds kriſtni ſaña, undir kroſsinum optaſt nær, ángur og ſorg má kaña, til heñar lítur þó Herrañ hýrt, huggunar ordid ſendir dýrt, og forſjón frómra manna.

7. Þad reyniſt opt í heimi hér, hlutfall Drottins áſtvina, hörmúnga ſverdid ſárt þá ſkér, ſæld líſſins gledz hina, hverjir þó Kriſtum hata meſt, heſir þad laungum vidgengeſt, lítt vill því ángri lina.

8. En þeir, ſem Jeſúm elſka'af tót, undir hans kroſsi ſtanda, Herrans blódfadmi horfa'á mót,

hvern þeir líta í anda, trúar og vonar sjónin sett; sár hans og benjar skoða rétt, það mýkir mein og vanda.

9. Jesús eiñig með ást og náð, aptur til þeirra lítur, gefur hugsvölun, hjálp og ráð, harma-bönd af þeim slítur, aðgætin Föðurs augun klár, oll reiknar siña barna tár, aðstoð þau aldrei þrýtur.

10. Jeg lít heint á þig, Jesú miñ! jafnan þá hrigðin særir; í mínum krossi krossiñ þiñ, kroptuglega mig nærir; sérhvert einasta sárið þitt, sañlega græðir hjartað mitt, og nýjañ fögnuð færir.

11. Þá eg andvarpa, ósk'og bið, augunum trúar minnar, lít eg hvert einast' orðið við, upp til kross-pínu þinnar, strax sýna mér þín signuð sár, syndugum manni opin stár, brunnur blessunarinnar!

12. Gleði-stund hölds þá gefur mér, Guð minn að vilja sínum, uppá þig, Jesú! horfi'eg hér, hjartans augunum mínum, auðlegðar gæðin líkhamlig, láttú þó aldrei villa mig, frá krossins faðmi þínum.

13. Jónas sat undir einum lund, engra meina því kenndi, hádegis-sólar hita-stund, hann ei til skaða brenndi; Jesú kross-skugga skjólið hér, skýlir þó lángtum betur mér, fyrir Guðs hefndar hendi.

14. Hvert ég sef, vaki, sit eður stá, í sælu og hættum nauða, krossi þínum eg held mig hjá, horfandi'á blóð þitt rauða; lát mig einnin þá æfin þver, úrak sofna á fótum þér, svo kvíð' eg sist við dauða.

# 38. Sálmur.

Lagid: Jesús, sem ad oss frelsadi.

Þeir, sem ad Kristí krossi sesi, komu og frambjá gengu, hristu med hádúng höfuden, honum til brýxlis fengu: heit-ord sin hefdi hafi haldid lítt, Herrans musteri' ad brjóta, á þrimur dögum annad nýtt, esna med bygging fljóta.

2. Tveir lugu svoddan fals-meñ fyrst, fyrir Kaiphas's dómi, af því hafdi þad útborist, eptir fjolmennis rómi; þessir þó hafi heyrt og séd, Herrans jardteiknir frídar, lýgin þeim betur gasst um géd, gengur svo enn til vídar.

3. Öldúngar landsins, fólkid flest, og flockur heidinn strídsmanna, Herrann vorn Jesúm hæddu mest, med höfdíngjam Prestaña, sögdu: ef ertú Son Guds kjær, sá þig med krapti stydur, kom þá hér, svo þad sjáum vær, sjálfur af krossi nidur.

4. Hafi, sá ed ödrum hefir hér, hjálpad og læknad marga, megnar nú ecki' ad löñu sér, sjálfum úr neyd ad bjarga. Svoddan hád-yrdi, hróp og dár, hlaut þá Jesús ad lída, stód þad yfir um stundir þrjár, stutt var andláts ad bída.

5. Þá fram hjá Kristí krossi nú, kalsandi held eg gánga, sem ecki' af hjartans ást og trú, elska hans pínu stránga, heilagleik sínum hrósa frí, vid holdsins fýsn sig binda, sídan falla örvænting' í, eda forherding' synda.

6. Ad pínum krossi, Kristi kjær! kém eg, sem eiñ framandi, gef þú mér leysi' ad gánga nær, géd

mitt styrki þinn Andi, svo eg hugleidi hvad tilkom, hádúng, bríxl-yrdi'og pínu, leidstú, manngædsku mildin fróm! móti andláti þínu.

7. Sál mín og líf þær sæmdir hlaut, sjálfs Guds musteri'ad heita, í skírninni því eg þín ad naut, þad nam Guds Andi veita, sídan hefir þad syndin morg, sárlega gjert ad brjóta, holds náttúran því elskar org, athæsid heimsins ljóta.

8. A þremur dogum þar á mót, því hét eg morgu sinni, med ydrun, trú og ysirbót, aptur þad bætast kynni, æ! hvad veitir slíkt ervidt hér, efnin og dug vill þverra, bríxlid sem til var búid mér, bar því Jesús minn Herra.

9. J velgengninni eg hrósa hátt, hraustleika trúarinnar, í mótlætinu hún bilar brádt, brest sinn eg stóran hennar, enginn fullkominn á mér sjest, ávoxtur dygda sætur, bar því fyrir mig bríxlid verst, blessadur Jesús mætur.

10. Hjólpa læist eg med heimæm rád, hinum, sem ílla breyta, sjálfs míns lýta þó sist fæ gád, svoddan má blindni heita; mér var þar stærsta minkun ad, mátti hádyrdum qvída, burt-tók nú Jesús bolid þad, bríxlin því vildi'hann lída.

11 Jesú! í þínu andláte, yfir þig bríxlin dundu, ad svo í fridi ond mín sé, á minni dauda-stundu; hádúng leidstú af ollum einn, alla frá háfúng leystir, aldrej tapast sá nockurr neinn, er nafn þitt uppá treystir.

12. Nær, sem hreckvísra hádúng ný, hjartad mitt sárt vill stánga, undir þinn kross eg feginn flý, framhjá skal eigi gánga, þar stend eg kyrr, þó

kals og sýk, qveiki mér heims óblída, uppá þig, Jesú! e ñ eg sje, allt vil eg med þér líða.

13 Fyrst þú varst hæddur, Herra! þá, harma qvøl leidstú slíka, svo heidri þig nú hédan ı frá, himnar og jørdin líka! allir Englar og øll heims mind, undir þitt vald sig hnegi, og eg þar uppá aum mannkind, Amen af hjarta segi.

## 39. Sálmur.

Lagid: Einn Herra eg best ætti.

Añar Ræníngiñ ræddi, sem refsad þad sinn var, Herrañ vorn Jesúm hæddi, hann gef þetta andsvar: ef þar von er til nockur, ad þú Guds Sonur sért, hjálpa þér og svo ockur, úr þessum naudum bert.

2. En hiñ þar uppá gegndi: ecki hrædistú Gud, hverjum strafs heiptin hegndi, hún var rétt verdskuldud, vid megum vel medtaka, verka betalíng þañ, en þessi'er alls án saka, eptir þad sagdi hann:

3. Hugsadú til mín, Herra! þá heldur þú ríki þitt! ást Drottins ej nam þverra, andsvar lét heyra sitt: sannlega eg þér segi: — sú er huggan in vís — þú skalt á þessum degi, mér þjóna' í Paradís.

4. Sjá hér fyrst straffid synda, sála mín! hriggilegt, forherdíng hjartans blinda, þó heldid qvelji frekt. Géfdú mér, Jesú gódi! eg gégni vel hirtíng þín, med trú og tára- flódi, og tjái þér brotin mín.

5. Ræníngjans ydrun eina, athugum líka med, hann gjørdi játníng hreina, hatadi íllverk skéd, því sagdi hañ væri ad vonum, verdlaunin ránglætes, ávítun veitti honum, sem vildi'ei gæta þess.

6. Hann trúdi: á himnaríki, hefdi vor Jesús ráð, þó syndugra sýndist líki, svo treysti á hans nád, med blygdun og hrelldum huga, Herrañ sín miñast bad, ljúflega lét sér duga loford ef fengi þad.

7. Hróp og hárevsti gjørdu, heidnir og Júdar þar, kríngum krossiñ á jørdu, med kals, brígsl og hádúngar; svaradi'ej Son Guds neinu, þó sjálfañ þad snerti hann, en syndugs mañs ordi einu, án dvalar gégna vann.

8. Sætt mér fyrir sjónum skartar, sæll Jesú! gædskan þín, þér gékk heldur til hjarta, hans neyden sjálfs þíns pín; sama hefir þú siñi vid syndugar sképnur hér, því aldrei eisku þinni, optur, minn Herra! fer.

9. Illvirkiñ hafdi uñid, ódáda verkin stærst, gøtu glæpaña ruñid, greidt fram í daudañ nærst, en Jesús ecki vildi, á þad neitt miñast nú, svo var mikil hans mildi; mín sál! þad hugleid þú.

10. Engiñ orvænta skyldi, þó ydrast hafi seint, sem er Guds Sonar mildi, sé annars hjartad hreint, því hverki vid stadi né stundir, stýlud er Drottins nád, allt fram andlátid undir, oss býdst hans hjálpar-rád

11 En þú skalt ecki treysta, óvissri dauda-stund, né Guds med glæpum freista, gjørandi þér í lund: nádartímiñ sé nærsta, nógur hondum fyrir; slíkt er hættusemd hærsta, hegni Gud fordi mér!

12. Svo margt eg syndgad hefi, sorgin mig furlar nú, ydrun Guds nád mér géfi, glóandi von og trú. Herra Jesú hjartkjæri! hugsa þú til mín þá, dapur er daudiñ nærri, og drag mig qvolum frá!

## 40. Sálmur.

Lagid: Skaparinn stjarna Herra hreinn.

Uppá Ræníngjans ord og bón, ansadi Guds hiñ kjæri Son: þú skalt, sañlega segi'eg þér, sælu-víst hafa'í dag med mér.

2. Sjá þú med gætni, sál mín kjær! soñ ydran hverju kraptad fær, uppá þad dæmid er hér rétt, ollum til lærdóms fyrirsett.

3. Reidi Drottins þó uppegnd er, yfir rángsæti mannsins hér, ydranin bisdkar aptur, Gud, ei verdur syndin tilreiknud.

4. Þó komi hestug hefndin brád, hrein ydran jafnan finnur nád, midt'í standandi strídi því, stillist Guds reidi uppá ný.

5. Samvitsku orma sárin verst, sonn ydran jafnan grædir best, hugsvalar sál'og huggar géd, heilaga Engla gledur med.

6. Bæn af ydrandi hjarta hýr, hún er fyrir Gudi metin dýr, Herrañ Jesús á hverri tíd, heñi gaf jafnan andsvor blíd.

7. Sem Móíses med sínum staf, sætt vatn ords fordum steini af, eins fær ydrandi andvarp heitt, út af Guds hjarta miskun leidt.

8. Játníng mín er sú, Jesú minn! jeg er, sem þessi Ræníngiun, já! engu betri í augsýn þín, ef þú vilt reikna brotin mín.

9. Kém eg nú þínum krossi að, kaslast þú Jesú minn! við það, syndanna þúngi þjakar mér, þreyttur eg nú að mestu er.

10. Alnakinn þig á einu tré, út þínar hendur breiðandi, sárin og blóðið signað þitt, sjer nú og skoðar hjartað mitt.

11. Þar við huggar mín sála sig, svoddan allt leidstú fyrir mig, þíns hjarta-dreyra heilög lind, hreinsar mig vel af allri synd.

12. Krossins burtnúmin qvölum frá, Kóngur ríkir þú himnum á, Herra! þegar mig hrellir pín, hugsaðu' í þinni dýrð til mín.

13. Seig þú hvern morgun svo við mig, sæti Jesú! þess beiði'eg þig: í dag þitt hold í heimi er, hjartað skal vera þó hjá mér.

14. Í dag — hvern morgun eg svo bið — aldrei lát mig þig skiljast við, hugur, sinni og hjartað mitt, hugsi og stundi'á ríkið þitt.

15. Eins þá kemur mín andláts tíð, orðin lát mig þau heyra blíð: í dag — segðú — skal sálin þín, sannlega koma' í dýrð til mín.

16. Herra minn! þú varst hulinn Guð, þá hæðni leidst og krossins nauð, þó hafðir þú með hæstri dáð, á himnaríki vald og ráð.

17. Dauðanum mót mér djörfúng ný, daglega vex af orði því: í dag, þá líður ei lángt um það, leidd verður önd í sælu-stað.

18. O Jesú! séu orðin þín, andláts síðasta huggan mín, sái' minni verði sælan vís, með sjálfum þér í Paradís!

# 41. Sálmur.

Lagid: Af djúpri hrigd ákalla'eg þig.

Um land gjörvalt vard yfrid myrkt, allt nær frá sjöttu stundu, sólin því ljóma sin fékk byrgt, sem til þinar níundu; Gud minn! — Jesús svo hrópar hátt — hvar fyrir gleymdir þú mér brádt? Svoddan, mín sál! vel mundu.

2. Enginn skal hugs' ad Herrann þá, hafi med efa'og brædi, hrópad hanninn og horfid frá, heilagri þolinmædi, syndanna krapt og qvalanna stærd, kynnir hann oss, svo verdi hrærd, hjörtun frá hreckja ædi.

3. Sólin blygdast ad skína skjær, þá Skapara sinn sá lída, hún hafd'ei skuld, (þad vítum vær), þess voda meinsins strída; o! hvad skyldi þá skammast sín, skepnan, sem Drottni jók þá pín, med hrigd og hjartans qvída.

4. Aví! hvad má eg aumur þræll, ángradur nidur-drjúpa þá eg heyri, minn Herra sæll! sú harma bylgjan djúpa, géck yfir þig, þá galtstú mín; gjarnan vil eg ad fótum þín, feginn fram flatur krjúpa.

5. Í ytstu myrkrum um eilífd er, óp og gnýstran tannanna, hefndar straff þad var maklegt mér, fyrir margfjöldann glæpanna; frá því, Jesú! þú frelstir mig, frekt gengu myrkrin yfir þig, svo skyld'eg þá qvöl ej kanna.

6. Í svörtu myrkri þad sama sinn, sorgarraust léstú hljóma, þá hrópadir þú mig, Herra! inn, í himneskann dýrdar ljóma; í því ljósi um

eilíf ár, úthrópa skal mín raustin klár, lof þinna leyndardóma.

7. Synda, sorga og mótgángs með, mínkrin svo opt mig pína, að gloggt fær ecki sálin sjeð, sælu-geislana þína; Jesú! réttlætis sólin sæt, syrgjandi eg það fyrir þér græt, harma-raust heyr þú mína.

8. Guð minn! segi eg gjarnan hér, geyst þó mig sorgin mæði, Jesú! eg læri nú það af þér, það skulu mín úr-ræði, gjörvöll þá heimsins gleðin dvín, Guð minn! eg hrópa vil til þín: Guð minn! allt böl mitt græðir!

9. Yfirgéfinn qvað Son Guðs sig, þá særðir hañ qvölin megna; yfirgéfur því aldrei mig, eilífur Guð hans vegna, fyrir þá Herrans hrigðar-raust, hærstur Drottinn mun efalaust, grátbeiðni minni gégna.

10. Þá sólar-birtunni eg sviptur er, sjón og heyrn tekur að dvína, raust og málfæri mínkar mér, myrkur dauðans sig sýna, í minni þér, Drottiñ sæll! þá sé, Sonar þíns hróp á krossins tré, leið sál til lífsins mína!

## 42. Sálmur.

Lagið: Eins og sitt barn.

Hsárri neyð, sem Jesús leið, sagði hann gloggt: mig þyrstir. Svo Ritníng hrein, í hverri grein, uppfylltist ein, um það mig ræða lystir.

2. Strax hljóp einn að, þá heyrði það, þitta njarðar-vött kunni, lét á reyr-prik,

drap í edik — med íllt tilvik — og bar Jesú ad munni.

3. Forundrast má, mín sál! Þar á, madurinn hverr þess gætir, ad hañ sem rád, hefir med dád, á himni' og láð, hormúng þvílíkri mætir.

4. Hañ, sá sem vín, af valdi sín, úr vatni sætt tilreiddi, med sorgar-skick, fêck súrt edik, fyrir svala-dryck, þá sárt hann þorstinn neyddi.

5. Því mundi ei hér, til hlífdar sér, Herrann edikid líka, sem vín ágætt, gjöra vel sætt, fyrst gat þad bætt, hans Guddóms maktin ríka?

6. Komin var tíd, krapta-verk fríd, Kristur ei gjöra skyldi, hin stundin þá, fyrir hendi lá, hrigd, qvol og þrá, Herrann vor lída vildi.

7. Krapta-verk hrein, kéñdu þá grein, ad Kristur Guds Sonur væri, en qvolin hans, sýndi til fañs, ad syndugs mañs, sektir og gjöld hann bæri.

8. Guds einka Son, gjördist vor þjón, þá græddi' hañ mein og qvida, offur-lamb best, hann ordiñ sjest, fyrir utan brest, í því hañ qvol nam lída.

9. Af strídi því, sem stód hañ í, styrkleiki mañs náttúru, þreyttist mjög vann, því þyrsti hann, þádi vokvann, þó af ediku súru.

10. Í annann stad, merk, madur! þad, og minnst þess hverju sinni: ad Herrañ Krist, hefir mest þyrst, af ást og lyst, eptir sáluhjálp þinni.

11. Ó madur! nú, þenk þar um þú, þiñ hugur blygdast skyldi; Gud þyrsti hér, ad hjálpa þér, en hjarta þitt er, óþyrst eptir hans mildi.

12. Heyr þú, sál mín! talar til þín, trygda brúdguminn gódi; þyrstur eg er, í hrigdum hér, svo hjálpi'eg þér, úr hættu qvalanna flódi.

13. Ber honum síst þeſs bid eg víst, beiſkann dryck hræſnis anda. ordin hans hrein, á alla grein, fyrir utan mein, óbrjáluð láttú ſtanda.

14. Uppá ord þín, ſvarar ſál mín, ſorgin þó mélid hertir: þyrſt er eg nú, og þad veitſt þú, Þýdi Jeſú! Þinni miſkunſemd eptir.

15. Ekk'er hjá mér, þad þyrſtum þér, þori'eg nú fram ad bjóda, nema ſá tár, trú veik, þó klár, ſem til þín ſtár, tak þad og vyrd til góda.

16. Lof, dýrd ſé þér, ſouin féckſt þú mér, og létſt þig ſvo miklu koſta, hjartad á ný, huggaſt af því, ad eg er frí, frá ellífum qvala þorſta.

## 43. Sálmur.

Lagid: Allfagurt ljós oſs birtiſt brádt,

Eptir ad þetta allt var ſkéd, edikid Jeſús ſmácka réd, þrótt og lífs ⸗ krapta þverra faun, þad er fullkomnad! ſagdi hann.

2. Ord þíns Herra med áſt og trú, athuga ſkyldir, ſál mín! þú, ef þetta grundvöll ſañañ ſier, ſæta huggun þau géfa þér.

3. Fyrſt ſkaltú vita'ad Gud útgaf, greinilegt lögmál himnum af, hann vill ad ſkuli heimi í, hverr madur lifa eptir því.

4. Algjört réttlæti ljóſt og leynt, líkhoma, ſál og gédid hreint, ſyndalaus ord og atvik med, af oſs lögmálid heimta réd.

5. Hugurinn vor og hjartad ſé, í hreiñi eiſku rétt brennande, fyrir utann hræſni, brædr'og bañ, bædi vid Gud og náungann.

6. Hverr þetta gæti haldið rétt, hönum var lífið fyrisett, en ef í einu út af brá, eilíf fordæmíng við því lá.

7 Enginn maður frá Adam fyrst, eptir þann dag hann fyndgadist, fullnægju gat því gjört til sanns, gengur það lángt yfir edli manns.

8 Oþærileg var allra sekt, eptir því Drottiñ géck svo frekt, annadhvert skyldi uppfyllt það, eda mannkynið fortapað.

9. Jesús eymd vora alla sá, ofan kom til vor jördu á, hæðum himna upprunninn af, undir lögmálið sig hann gaf.

10. Viljuglega í vorn stað géck, var sú framqvæmdin Gudi þeck, fódurnum hlýðni fyrir ofs galdt, fullkomnadi svo lögmál allt.

11. En svo að synda sektin skéd, sannlega yrdi forlíkt med, og bölvan lögmáls burtu máð, beiska qvöl leið og dauðans háð

12. Þá hann nú hafði allt uppfyllt, sem ofs var sjálfum að gjöra skyldt, og bæta öll vor brotin frí, berlega vildi'hann lýsa því.

13. Þess vegna Herrann hrópa nam, hardtnær á krossi stíginn fram, að ofs í voru andláte, öll hans verdskuldan huggan sé.

14. Svoddan adgættú, sála mín! Sonur Guds hrópar nú til þín, hvad þér til frelsis þéna kañ: það er fullkomnað! segir hann.

15. Fullkomnað lögmál fyrir þig er, fullkomnað gjald til lausnar þér, fullkomnað allt það fyrir er spáð, fullkomna skaltú eignast náð.

16. Herra Jesú! eg þacka þér, hvillka hugg-un gafstú mér, ófullkomleika allann minn, umbæti Guddóms kraptur þinn.

17. Hjálpa þú mér svo hjartad mitt, hugsi jafnan um dæmid þitt, og haldist hér í heimi nú, vid hreina samvitsku og rétta trú.

18. Uppá þessi þín ordin traust, óhræddur dey eg qvídalaust, því sá frelsis fullkomnan þín, forlíkad hefir brotin mín.

## 44. Sálmur.

Lagid: Herra Gud í himnaríki.

Hrópadi Jesús hátt í stad, holds megn og kraptur dvínar: eg fel minn anda — Frelsarinn qvad — Fadir! í hendur þínar.

2. Þú, kristinn madur! þenk uppá, þíns Herra heilskann dauda, ad ordum hans og einninn gá, eru þau lækníng nauda.

3. Jesús haldinn í hærstri qvøl, hladinn med eymdir allar, dapurt þá adgéck daudans bøl, Drottinn sinn Fødur kallar.

4. Herrann vill kénna þar med þér, þín ef mannraunir freista, gódlyndur Fadir Gud þinn er, gjørir þú honum ad treysta.

5. Fyrir Jesúm þú fullvel mátt, Fødur þinn Drottin kalla, enn þótt þig krossinn þvingi þrátt, það mýkir hørmúng alla.

6. Eins og fadirinn aumkar sig, yfir sitt barnid sjúka svo vill Gud einninn annast þig, og ad þér í miskun hjúka.

7. Einninn sýna þér ord hans klár, ódaudleik' sálarinnar, þó kroppurinn verdi kaldur nár, krenkist ej lífid hennar.

8. Hvar hún finnur sinn hvíldar-stad, Herrann sýnir þér líka, hond Guds þíns Fødurs heitir þad, hugsa um rædu slíka.

9. Viljir þú eptir endad líf, egi þín sál þar heima, undir hond Drottins hér þá blíf, hans bodord skaltú geyma.

10. Láttú Guds hond þig leida hér, lífsreglu haldt þá bestu, blessad ord hans, sem bodast þér, í brjóst' og hjarta festu.

11. Hrynd þú ej frá þér Herrans hond, hún þó þig typpa vildi, legg heldur bædi líf og ond, ljúflega' á Drottins mildi.

12. Hér þegar mannleg hjálpin dvín, holdid þó qveini' og sýti, uppá hond Drottins augun þín, ætíd í trúnni líti.

13. Ad morgni' og qvøldi minnst þess vel, máls uppterkt láttú þína: af hjarta' eg þér á hendur fel, Herra Gud! sálu mína.

14. Svo máttú vera víss uppá, vilji þér daudinn granda, sála þín mætir miskun þá, millum Guds Fødurs handa.

15. Hún finnur eckert hrigdar-stríd, hormúng né mædu neina, í fridi stodar ætíd blíd, ásjónu Drottins hreina.

16. Eptirtekt mér þad einnig jók — er eg þess gæta kunni — andláts bæn sína sjálfur tók, Son Guds af Davíds munni.

17. Bæn þína aldrei bygdu fast, á brjóstvit náttúru þinnar, á Guds ordi skal hún grundvallast, þad gérir styrk trúarinnar.

18: Vér vitum ej hvers bidja ber, blindleikinn holds því veldur, Guds ord sýnir þann sannleik þér, sæll er sá þar vid heldur.

19. Vertú, Gud Fadir! fadir minn, í Frelsarans Jesú nafni, hönd þín leidi mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

20. Höndin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær, sem þú mig hirtir hér, hönd þína'eg gladur kyssi.

21. Daudans stríd af þín heilög hönd, hjálpi mér vel ad þreja, medtak þá, Fadir! mína önd, mun eg svo gladur deya.

22. Minn Jesú! andláts ordid þitt, í mínu hjarta'eg geymi, sé þad og líka sídast mitt, þá sofna'eg burt úr heimi.

## 45. Sálmur.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Þá Frelsarinn í Födurs hönd, fól nú blessadur sína önd, nidur sitt höfud hneigdi fyrst, herrann í því hann sáladist. Drottinn vor þannin dó á tré, dásemd kunni ej meiri'ad ské.

2. Sankti Páll segir í sannri raun, syndarinnar sé daudinn laun, bana-spjót eru brotin ljót, bodordum Drottins gjörd á mót, sá skal deya, sem syndgar hér, svoddana úrskurdur réttur er.

3 En þad hér heima átti síst, af því Jesús er sa(k)laus víst, af helgum Anda med hreinum sid,

Hañ var gétiñ í meyar-qvid, Guds Fodurs veru fegurst mind, frjáls lifdi' og dó af allri synd.

4. Hverki refsing né heljar bad, hafdi nú Jesús forskuldad, hvad kom þá til ad Herrañ leid, harda pínu og beiskañ deyd? eda hvad fyrir hirtist hañ, hegníngar til sem aldrej vann?

5. Guds Andi þar á gjörir skil, greinir þvílíka orsok til: vegna misgjorda vorra hér, vissulega hann særdur er, því Drottiñ lagdi svo fyrir sann, syndirnar vorar uppá hann.

6. Sjá hér, mín sál! fyrir syndir þín, Sonur Guds lídur qvol og pín, hañ dó fyrir þig, sem daudans bad, dárlega hafdir forskuldad, hann lét sitt líf svo lifdir þú, lífs eilífs von því áttu nú.

7. A mig var fallin þýngsta þraut, því ad eg Drottins logmál braut, samvitsku særdi synda grád, svo féck daudiñ sterk yfirrád, til fordæmíngar mér fjoturin hans, fast-ega héldu víst til sanns.

8. Logmál safnadi sektum mér, sektiñi Daudiñ eptir fer, daudinn til dómsins dregur snar, Dómurinn straffid úrskurdar, straffid um eilífd aldrej dvín, eilíf því var hin þýngsta pín.

9. Logmálid hér sig forgreip fyrst, felldi þad dóm yfir Herrañ Krist, þad baud ad sá bolvadur sé, sem bana lídur á einu tré, djarflega eptir því daudiñ géck, Drottinn frá lífi skilid féck.

10. Sekt þá, sem logmál setti mér, sjálfur borgadi Jesús hér, þad misti sína makt í því, mig verdur nú ad láta frí, daudans brodour var brotinn þá, burt hans fángelsi slapp eg frá.

11. Eilífur dauði deyddur er, dauði Jesú það vinnur hér, dýrt metur Drottinn dauða minn, dauði! hvar er nú broddur þinn? dauðinn til lífs nú stutt er stig, stórlega dauðinn batar mig.

12. Dauðinn þó orkar einn til sanns, útslockna hlýtur lífið manns, holdið legst í sinn hvíldar-stað, hans makt nær ecki lengra' enn það, sálin af öllu fári frí, flutt verður himna sælu í.

13. Í þínum dauða, o Jesú! er mín lífsjóð og huggan trú, dásemdar kraptur dauða þíns, dreifist nú inn til hjarta míns, uppá það synd og íllskan hver, út af deyi í brjósti mér.

14. Þú hneigðir þínu höfði ljóst, Herra! þeg-ar á krossi dóst, með því bendtir þú mér það sinn, að minnast jafnan á dauða þinn, eins þá eg dey, skulu augun mín, upp líta, Drottinn sæll! til þín.

15. Fyrir þann deyð, sem þoldir þú, þig bið eg, Jesú! um það nú: að gefi mér þín gæðskan blíð, góða kristins manns dauða tíð, hold mitt lát hvíl-ast hægt með frið, hönd þín sálunni taka við!

## 46. Sálmur.

Lagið: Þá linnir þessi líkhams vist.

Þegar Kristur á krossins tré, kannaði dauð-ann stríða, teikn og stórmerki mestu ské, — mælir svo Ritníng fríða — musteris tjaldið (mjög umvendt), í miðju varð að rifna' í tvennt, hristist jörð harla víða.

2. Sundur-klofnuðu björgin blá, byrgð leiðin opnast fóru, líkhamir dauðra lifna þá,

— lít hér þau undrin stóru — eptir Lausnar-ans upprisu, inn í borgina vitjudu, af sumum þar sjenir vóru.

3. Hvad hér historían hermir rétt, hygg ad því, sál mín mæta! þér til lærdóms er þad framsett, þess áttú vel ad gæta, jordin sjálf þegar Jesús dó, jafnvel þeir hordu klettar þó, sýndu medaumkun sæta.

4. Steini hardara' er hjartad þad, sem heyrir um Jesú pínu, gefur sig þar þó ecki ad, añ meir gjálífi sínu; kañ nockud svoddan kaldt hugskot, Kristí dauda ad girnast not? Gud stjórni gedi mínu!

5. Þad má undra: hin þúnga jord, þreydi ei kyrru'ad halda, blágrýtis eiñig bjergin hord, bresti lidu margfalda, holdid þó ei né hjartad manns, hriggist vid pínu Skaparans, sem hans þó hlaut ad gjalda.

6. Fortjaldid sýnir sannleik þann, sundur þá ryfna nádi, aftakast skyldi oll fyri sañ, eptir Guds settu rádi, Gydínga-kynsins kóngleg stjórn, Kénivaldid og logmáls fórn, sem Ritníng sjálf um spádi.

7. Hindran réd ollum ærid stór, iñ í Guds ríki baña, því veldur syndasektin vor, og saurugleikiñ verkaña; en fyrir Jesú dýrstañ deyd, Drottinn tilbjó oss opna leid, hédan upp til himnanna.

8. Hér í krisniñar helgidóm, hofum vér frelsi' ad gánga, þar bodast nád og blessan fróm, burt er þá sorgin strånga, sálin vor hefir búna braut, beint í Abrahams gledi-skaut, eptir heims hormúng lánga.

9. Frelsarans dauda eiñig ad, enduð líkin hér njóta, gudlegur kraptur gjordi þad, grafirnar opnast hljóta, því Drottins Jesú daudi'á kross, daudañ sigradi fyrir oss, abl hans oa brodd nam brjóta.

10. Merk, ad úr jordu mátt'ei neiñ, madur frá dauda standa, fyrr eñ tjédi vor Herra hreinn, hold sitt aptur lifanda, fyrst (r ellra því uppreis hann, af egiñ krapti', og þar med sann, endurlausn oss til handa.

11. Höfdíngiñ krossi Herrans hjá, hér med allt fólkid l ka, jafnsnart, sem þetta jardteikn sjá, játning þeir gjördu slíka: sannlegá hefir saklaus hann, og Son Guds verid þessi mann; brjóst slá og brátt heim víkja.

12. Fólkid, sem harda krossins qvöl, Kristi fyrr óska nádi, sann nú hid þyngsta í brjésti böl, beiskleg samvitskan þjádi; of hastarlegañ úrskurd flý, ef þú vilt vera' af sorgum frí, hætt er rasanda rádi.

13. Daudi þinn Jesú Drottiñ! þá, dýrdlegañ krapt útsendi, heidnum mañi svo hér vid brá, hañ þig Guds Son medkéñdi. Eg bid gædskar gédid þitt: géf þú vidlisni hjartad mitt, ad svo frá íllu vendi.

## 47. Sálmur.

Lagid: O Jesú! c stu hreinn.

Rafníngjar Kristí þá, krossinum lángt í frá, stódu med þúngri þrá, þessa tilburdi sjá.

2. Var þar og vel stadt med, ad vísu margt qvenmjólked, sár Jesú fengu sjed, sorgandi báru ged

3. Af þessu, mín sál! þú sjer, sannlega hversu ei, valt allt í heimi hér, haf slíkt í minni þér.

4. Dvínar og dregst í hlje, á dauda stunduñe, vinskapur, frændur, sje, fallvallt bygg eg þad sé.

5. Þó vildu vinirner, veita hjálp nockra þér, vorn þeirra ónýt er, engin daudanum ver.

6. Lífinu hjúkrar hond, þá herdir sóttar grond, hjálpa þó engin ond, upphugsud rádin vond.

7. Vinskap í synda sid, sála mín! þess eg bid, haldtú ei verold vid, viljir þú sofna' í frid.

8. Hreinañ vinskap haldt þú, vid Herrañ þiñ Jesúm nú, í hreinni hjartans trú, frá heimsins elsku þér snú.

9. Hañ eiñ má hjálpa þér, þá hjástod mannleg þver, heim þig á hendum sér, í himna sælu ber.

10. Þad hér í sañleik sjest, er Sonur Guds andadest, sorgin þá særdi mest, sem hañ elskudu best.

11. Krists born eru kross = born, vid Kristum blýdnis gjorn, hann sýnir þeim hjálp og vorn, þó hord sé sútar qvórn.

12. Þú skyldir þar ad gá, þó þeir stædu lángt frá, allir samhuga sjó, Son Guds kross festann á.

13. Komid svo konur og menn, ad krossinum Jesú senn, þó naudin þreyngi þrenn, þar fæst nóg lækníngen.

14. Kom þú, sál kristin! hér, sem kross og mañraunir ber, settú fyrir sjónir þér, Son Guds, sem píndur er.

15. Uppá hans heilog sár, horfi þín trúin klár, þad mýkir trega' og tár, temprar allt sorgar = fár.

16. Sértú, syndugur mañ! særdur um hyggjurann, horf þú beint uppá hann, sem hjálp þér á krossi fann.

17. Hvert, sem eyr-orminn leit, af Israels manna sveit, eitrid ei á þann beit, oll stilltist plágan heit.
18. Svo stór synd engin er, ad megi granda þér, ef þú á Jesúm sjer, ydrandi í trúnni hér.
19. Sje eg þig, sæll Jesú! svo sem áleingdar nú, von mína og veika trú, vid bid eg hressir þú.
20. Þá eg sje sárin mín, særir mig hjartans pín, sárin þá sje eg þín, sorg oll og qvídi dvín.
21. Lát mig, o Jesú kjær! aldrei svo vera þér fjær, ad sjái ei sár þín skjær, þá sorg og eymd mig slær.
22. Vert mér eg verdi og sé, vin þinn og kunninge, þó hvert sé heilsa' og fé, hjálp mun þá nóg í tje.
23. Eg fel í sérhvert sinn, sál og líkhama minn, í vald og vinskap þinn, vernd og skjól þar eg finn.

## 48. Sálmur.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Ad qvøldi Júdar frá eg færi, til fundar senn vid Pilatum, og þess beiddu: ad ecki væri, dáudud lík á krossunum. því hátídin var harla nærri; hér svo Ritning grenir um.
2. Stridsmønnum hann baud ad brjóta, beinin þeirra' og svo var gért, heljar-stund þeir hreppptu skjóta, hinir tveir — sem greini' er bert — en Jesúm létu síns lífláts njóta, limina hans ej fengu snert.
3. Stridsmann einn med heiptar-hóti, hardlyndur geck krossi ad, Lausnarans sídu lagdi spjóti, lagid nam í hjarta stad, blód og vatn þar frá eg útfljóti, fyrr var ádur spád um þad.

4 Umhugad er einum Drottni, allra sinna barna lik, í jordu hér þótt holdid rotni, huggan kraust mig gledur slik, hann vill ej týnist bein né brotni; blessud sé sú eilkan rík!

5. Gud Drottinn med gædsku rádi, gjørdi Adams sídu af, fríða qvinnu fyrst á ládi, fast hann þó á medan svaf, vaknadur þess ad vísu gádi, og veglegt henni nafnid gaf.

6. Sofnadur á sinni sídu, sárid Drottins Jesús bar, svo af vatni og blód hans blídu, bygdist heilog kristnin þar, nádi hún edla nafni frídu, nær til himna stigin var.

7. Skodadú hvernig skírnin hreina, skiljast nú med réttu á, ad vísu jafnan vatnid eina, vor líkhamleg augun sjá, en trúar-sjónin, svo má greina, Sonar Guds blód þar lítur hjá.

8. Æ! hvad má eg sælan saña, Sankti Thómas Postula þin, þá sídu-mátti hann sár þitt kanna, sína hend þar lagdi inn, þú munt ej mér þjádum bana, þad ad skoda, Jesú minn!

9. Allar Jesú ædar stódu, opnadar í qvolinne, dreyra lækir dundu og flódu, um Drottins líf á krossins tré, nægd af lausnar-gjaldi gódu, Guds Son fyrir mig lét í tje.

10 En svo eg skyldi sjá og játa, saña elsku Drottins míns, vildi hann ecki læstar láta, lífs-ædarnar hjarta síns, því er, sál mín! mikil ár máta, miskunsemi Lausnara þíns.

11. Opnar dyr á arkar sídu, inn um gengu sképnurnar, sem sjálfur Drottinn baud med blídu, bjargast skyldu inni þar, fyrir vatnsins flóda stridu, frelsi og líf þeim gésid var.

12. Lífsins dyr á síðu sinni, setur Jesús opnar hér, svo ángrud sála adstod sinni, oll þá mannleg hjálpin þver, hverr sem hefir þar athvarf inni, frá eilífum dauda leystur er.

13. Nói um sinn arkar glugga, upp til himins litid fékk, haldinn dymmum hrigdar-skugga, hátt þá vatnsins flódid géck, svo hann mætti' um sídir hugga, sólar-ljóma birtan þeck.

14. Ségnum Jesú helgast hjarta, í himininn upp eg líta má, Guds míns ástar birtu bjarta, bædi fæ eg ad reyna og sjá, hrigdar myrkrid sorgar svarta, sálu minni hverfur þá.

15. Guds var máttug mildin prúda, Móses þegar steininn sló, út til allra Israels búda, ágjætt svala vatnid dró, hressti þyrsta, þjáda, lúda, þeim svo nýa krapta bjó.

16. Þá sjálfur Gud á Sonarins hjarta, sínum reidi-sprota slær, um heimsins áttar alla parta, útrann svala-lindin skjær, sálin vid þann brunnin bjarta, blessun og nýa krapta fær.

17. Vid þennan brunnin þyrstur dvel eg, þar mun eg nýa krapta fá, í þessi inn mig fylsnin sel eg, fargar engin sorg mér þá, sælann mig fyrir trúna tel eg, hún tekur svo Drottins benjum á.

18. Hjartad mitt er, Herrann gódi! hriggilega saurgad mjog, þvoðú þad med þínu blódi, þess af audmýkt beidi eg, vinni mér bót á mædu' og módi, miskunsemin guddómleg.

19. Hjartans innstu ædar mínar, elski, lofi, prísi þig, en hjarta-blód og benjar þínar, blessi,

hresſi, græði mig, hjartans þýðar þackir fínar, þér ſé gæðſkan eilíflig!

## 49. Sálmur.

Lagið: Nú látum oſs líkhomann grafa.

Jóseph af Arímathía, eddiborin Rádherra ſá, Gydínga ſvik við Son Guðs ſkéð, ſamþyckt hafði þeim aldrej með.

2. Hañ var Lausnarans Lærisveiñ, líferns fræmur, dygða hreinn, Gydínga bræðiſt heiptar raun, héldt ſig að Kriſti þó á laun.

3. Þessi um gröðið þángað gèck, þá af Pilató leyfið fèck, að mætti Jeſúm andaðann, ofan taka og jarða hann.

4. Jóseph tók ſtrax af kroſsi Kriſt, kevpti þó nýañ lín-dúk fyrſt, Nicódemus kom þegar þar, þángað kóſtuleg ſmyrſlin bar.

5. Jóseph gröf eina átti þar, útklöppuð ſú í ſteini var, í aldingarði þar allſtañt frá, enginn fyrr dauður í henni lá.

6. Dýrdlega ſmurðu Drottins lík, tæmin má ennur ſiña ſlík, byrgðu með ſteini búna gröf, burt gengu ſtrax fyrir utan töf.

7. María Jacobs móðir ein, Magdalena á ſömu grein, Salóme einnig ſat þar hjá, ſáu vors Herra greſtrun á.

8. Ó þeirra ſeiſkap, ſál mín blíð! ſettu þig niður litla tíð, greftrun þíns Herra gæt vel að, gagnlauſt mun ecki vera það.

9. Við Jesú greftrun jeg sæ sjeð, Jóseph og Nicódemum með; áður þorðu þeir ecki Krist, opinberlega' að játa fyrst.

10. Nú fá þeir nærsta nýann dug, nóga djerfúng og styrkvann hug, augljóslega svo allir sjá, elsku sem Drottni hofðu á.

11. Rjúkandi trúar þorinn hér, helgur Andi svo viðnærer, ljómandi þar af ljósið skín, lífgar það allt með krapti sín.

12. Huggist þeir nú, sem hjartað deigt, hafa og trúar-megnið veikt, biðji um styrk og stoðugt geð, stundi og læri Guðs orð með.

13. Veit þú, Jesú! að veik trú mín, vaxi daglega' og elskan þín, eblist svo með mér innvortes, ytra góð sjáist merki þess.

14. Annað þú líka merkja mátt: mislíkar Drottni' á engann hátt, þó heiðurleg sé hér á jord, holdi útvaldra líkfor gjord.

15. Mætast Guðs Anda musteri, mañs var réttkristins líkhami, því má honum veitast uppdrúng rétt, vel með stillíng og hófi sett.

16. Erfis dryckjur og ónýtt prjál, ecki á skyldt við þetta mál, heiðíngja slíckan heimskuleg, hæfir kristnum á engann veg.

17. Ærið þá sjer þú sálað hold, sett vera niður í jarðar mold, hryggur þú vert og hugsa brádt, hér við þú líka skilja átt.

18 Lagt þegar niður líkið sjer, láttu sem dauðinn hvísli' að þér: lángt, máské, ecki líði' um það, legg eg þig eins í slíkann stað.

19. Góði

19. Gódi Jesú! fyrir greftrun þín, gef þú síd-asta útfør mín, verdi farsæl og fridsom mér, frelsud sál nái dýrd hjá þér.

20. Í þridja máta: huggan hrein, hér veitist þér á alla grein, Guds Sonar hold því greftrad var, greftrun minni til virdíngar.

21. Helgum Guds børnum Herrans hold, helgadi bædi jørd og mold; grefin því er vort svefnhús sett, svo má ej granda reidin hætt.

22. Svo ad lifa, eg sofni hægt, svo ad deya, ad qvøl sé bægt, svo ad greftrast, sem Guds børn hér, gef þú, sætasti Jesú! mér.

## 50. Sálmur.

Lagid: Gef eg mig allann á Guds míns nád.

Óldúngar Júda annars dags, inn til Pílatum gengu strax, søgdu: Herra! vér høfum mest, í huga fest, hvad sá falsari herma létst.

2. Eptir þrjá daga — ódt fyrir sann — uppríſa mun eg, sagdi hann; vid sl'ku' er best ad leita lags, lát geyma strax, þessa grøf inn til þridja dags.

3. Máské líkid med leyndum bljódt, Lærisveinar hans taki um nótt, og lýdnum segi þad lyga skin; þá lítst ej kyn, þó verdi sú villan verr' enn hin.

4. Pílatus víst þeim vardhald fékk, vaktin strax út af stadnum géck, grófinni blifu Herrans hjá, og svo til sjá, settu innsigli steininn á.

5. Gydínga hørd var heiptin beisk, hjartans blindleiki' og villan treysk, þeim kunn' ei nægjast qvøl og bann, sem Kristur fann, líka daudann þeir lasta hann.

6. Fordast þú svoddan fíblsku grein, framlidins manns ad lasta bein, sá daudi' hefir sinn dóm med sér, hvert helzt hann er, sem best haf gát á sjálfum þér.

7. Gydíngar vildu veita rírd, vors Lausnara upprisu dýrd, en Drottins vald og vísdómsrád, þeis vel fékk gád, verk sitt framqvæmdi víst med dád.

8. Hefdi ei vaktin geymt og gætt, grafarinnar, sem nú var rædt, orsøk var meiri'ad efast þá, hvert upp réd stá, Drottinn vor Jesús daudanum frá.

9. En þeir sjálfir, og er þad víst, upprisu Drottins hafa lýst, þó Kénnimenn Júda' af

kaldri stygd, qvaldir af blygd, keyptu þá til ad bera lygd.

10. Öll svikráð manna og atvik íll, énýtir Drottinn þá hann vill, hans ráð um eilífð stöðugt stár, og stjórnin klár, slægðin dramblátra slétt forgár.

* * *

11. Hvíli'eg nú sídast huga minn, Herra Jesú! vid legstad þinn, nær sem eg gæti' ad greftrun þín, gledst sála mín, skelfing og ótti daudans dvín.

12. Sektir mínar og syndir barst, sjálfur þegar þú píndur varst, uppá þad dóstú, Drottinn kjær! svo qvittudust þær, hjartad því nýann fögnud fær.

13. Þú gróíst þær nidur í grof med þér, gafst þitt réttlæti aptur mér, í hafsins djúp, sem fyrispád finnst, þeim fleygdir innst, um eilífð verdur ej á þær minnst.

14. Svo er nú syndin innsiglud, ydrandi sála qvitt vid Gud, eilíft réttlæti uppbyrjad, í annann stad, trúud manneskja byggur þad.

15. Daudi

15. Daudi þinn, Jesú! deydi hér, dárlegd holdsins girnd í mér, grefin þín hylji glæpi mín, fyrir Guds augsýn, ebli mér styrk uppristan þín.

16. Stein-þrô míns hjarta' úthoggvin sjest, heilagur Andi vann þad best, líndúk tráar eg læt í tje, minn Lausnare! ylmandi smyrsl ydr-anin sé.

17. Svo finn'eg hæga hvíld í þér, hvíl þú, Jesú! í brjósti mér, innsigli' heilagur Andi nú, med ást og trú, hjartad mitt svo þar hvílist þú.

18. Dýrd, vald, vyrding og vegsemd hærst, virska, makt, spekt' og lofgjörd stærst, sé þér, o Jesú Herra hár, og heidur klár, Amen! Amen! um eilíf ár!

